## RIT GUNNARS DAL:

Vera, 1949.
Sfinxinn, 1953.
Rödd Indlands, 1953.
Þeir spáðu í stjörnurnar, 1954.
Sfinxinn, 2. útg., 1954.
Sókrates, 1957.
Spámaðurinn (þýdd ljóð), 1958.
Októberljóð, 1959.
Leitin að Aditi, 1961.
Tveir heimar, 1961.
Líf og dauði, 1961.
Hinn hvíti lótus, 1962.
Yogasútra Patanjalis, 1962.
Sex indversk heimspekikerfi, 1962.
Grískir heimspekingar, 1962.
Öld Sókratesar, 1963.
Varnarræða Sókratesar, 1963.
Raddir morgunsins, 1964.
Móðir og barn (þýdd ljóð), 1964.
Plató, 1966.
Aristóteles, 1966.
Orðstír og auður, skáldsaga, 1968.
Á heitu sumri, skáldsaga, 1970.
Indversk heimspeki, 1972.
Spámaðurinn, 2. útg., 1975.
Grískir heimspekingar, 1975.
Kamala, skáldsaga, 1976.
Kastið ekki steinum, ljóðasafn, 1977.
Með heiminn í hendi sér, 1978.
Existentíalismi, 1978.
Lífið á Stapa, ljóð, 1979.
Spámaðurinn, 3. útg., 1979.
Heimspekingar Vesturlanda, 1979.
Gúrú Góvinda, skáldsaga, 1980.
Grískir heimspekingar, 2. útg., 1981.
Öld fíflsins, ljóð, 1981.
Spámaðurinn, 4. útg., 1982.
Hundrað ljóð um Lækjartorg, 1982.
Heimsmynd okkar tíma, 1983.
Spámaðurinn, 5. útg., 1983.
Orð milli vina, ljóð, 1984.
Spámaðurinn, 6. útg., 1984.
Undir skilningstrénu, ljóð, 1985.
Spámaðurinn, 7. útg., 1986.
Mannssonurinn, 1986

Kahlil Gibran

# MANNSSONURINN

Gunnar Dal
þýddi



Víkurútgáfan

*Þýðing þessi er tileinkuð vinum mínum*
*hjónunum*
*Helgu Sigbjörnsdóttur og*
*Guðjóni Elíassyni.*

# Jakob Sebedeusson

Vordag einn stóð Jesús á torginu í Jerúsalem og hann talaði til mannfjöldans um himnaríki.

Hann ásakaði fræðimennina og faríseana fyrir að leggja gildrur á leið manna, og grafa þeim fallgryfjur sem leituðu að ríki friðarins. Og hann bar fram ákæru gegn þeim.

Meðal fjöldans var hópur manna sem varði faríseana og fræðimennina. Þeir menn leituðust við að leggja hendur á Jesú og á okkur.

En hann vék sér undan og sneri við þeim baki. Og hann gekk til borgarhliðsins í norðri.

Og hann sagði við okkur: „Minn tími er enn ekki kominn. Enn er margt sem ég þarf að segja ykkur. Enn eru verkin mörg, sem

ég á óunnin, áður en ég leyfi þessum heimi að beita mig valdi sínu“.

Seinna sagði hann, – og það var gleði og hlátur í rödd hans: „Höldum norður í land til fundar við vorið. Fylgið mér til fjalla. Vetur er liðinn og mjöllin á fjöllum Líbanons fellur syngjandi niður í dalina.

Jörðin og víngarðurinn vakna af vetrardvala og grænar fíkjur og mjúkar vínþrúgur heilsa hækkandi sól“.

Og hann gekk á undan okkur og við fylgdum honum allan þann dag og einnig hinn næsta.

Og seint á þriðja degi náðum við hæðum Hermonfjallsins. Og hann stóð á tindi þess og horfði á borgina niðri á láglendinu.

Og gullinn bjarmi lék um andlit hans og hann hóf upp hendur sínar og sagði við okkur: „Sjáið þessa jörð í grænum möttli sínum, og sjáið hvernig lækirnir brydda klæðafald hennar með silfurtaumum.

Sannarlega er jörðin fögur og fagurt er allt sem á henni er.

En til er heimur handan alls sem augu

ykkar sjá og þar er mitt ríki. Og stefni þrá ykkar þangað, þá munuð þið einnig ríkja þar með mér.

Hvorki andlit mitt né andlit ykkar verður neinum hulið, hvorki munum við bera sverð né veldissprota. Og þegnarnir munu elska okkur og óttast okkur ekki".

Þannig talaði Jesús, og öll ríki jarðarinnar urðu mér einskis virði og allar borgir þeirra með turnum sínum og múrum, og ég ákvað að fylgja meistaranum inn í ríki hans.

En einmitt þá gekk Júdas Ískaríot fram. Hann gekk fast að honum og sagði: „Ríki jarðar eru voldug. Borgir Davíðs og Salómons eiga að sigra Róm. Viljir þú vera konungur gyðinga skulum við standa við hlið þér með sverð og skjöld og sigra þessa útlendinga".

Þegar Jesús heyrði þetta, snerist hann gegn Júdasi og það dimmdi yfir svip hans. Rödd hans varð ógnvekjandi eins og þrumur himinsins og hann sagði: „Vík frá mér, Satan! Heldur þú að ég hafi komið til að ríkja yfir mauraþúfu í aðeins einn dag?

Hásæti mitt er handan við þinn sjóndeildarhring. Á sá, sem með vængjum sínum umlykur allan heiminn, að taka sér bústað í yfirgefnu og gleymdu hreiðri? Eiga þeir sem lifa að þiggja heiður og upphefð af þeim dauðu?

Mitt ríki er ekki af þessum heimi og hús mitt er ekki reist á höfuðskeljum forfeðra þinna. Ef þú leitar að öðru en ríki andans, þá er þér betra að yfirgefa mig og hverfa til grafa hinna dauðu, þar sem þeir er eitt sinn báru kórónu dveljast með hirð sinni og dýrka kannski enn þína frægu feður.

Dirfist þú að bjóða mér skuggakórónu í staðinn fyrir kórónu lífsins? Fremur en þína dýrð vel ég þyrna þína.

Væri ég ekki á valdi draums sem varð til hjá gleymdri þjóð, léti ég ekki sól þína skína á langlundargeð mitt og ég léti ekki mána þinn varpa skugga mínum á veg þinn.

Væri ég ekki bundinn von móður, hyrfi ég úr þessum heimi.

Og væri ekki sorgin, sem býr í ykkur öllum, þyrfti enginn að fella tár vegna mín.

Hver ert þú og hvað ert þú, Júdas Ískar-íot? Og hvers vegna freistar þú mín?

Hefur þú vegið mig á vogarskálum og talið mig líklegan til að leiða heri dverga og stýra stríðsvögnum afturgangna gegn óvini sem aðeins á sér herbúðir í hatri þínu og ekki er til annars staðar en í ótta þínum?

Allt of margar eru nöðrurnar sem skríða við fætur mér og ég vil ekki berjast gegn þeim. Ég er þreyttur á háðinu og þreyttur á að vorkenna vesalingum sem halda að ég sé huglaus vegna þess að ég vil ekki halda gegn herköstulum þeirra. Vesælt er að verða að aumka þá þar til yfir lýkur. Gæti ég aðeins gengið á vit stærri veraldar, byggðri meiri mönnum. En hvernig get ég það?

Presturinn þinn og keisarinn þinn sækjast eftir blóði mínu. Áður en ég fer héðan skulu þeir mettir verða. Ég vil ekki breyta gangi laganna. Og ég vil ekki veita trúðum brautargengi.

Lát fáfræðina fara sína leið, þar til hún verður þreytt á eymd sinni.

Lát blindingjann leiða hinn blinda að fallgryfjunni.

Lát hina dauðu grafa sína dauðu, þar til jörðin þjáist af beiskum ávöxtum sínum.

Mitt ríki er ekki jörðin. Mitt ríki skal verða þar sem tveir eða þrír ykkar koma saman í kærleika, fagnandi yfir undri lífsins og minnast mín með gleði."

Þegar hann hafði þetta mælt, leit hann aftur á Júdas og sagði: „Maður, stattu að baki mér! Þitt ríki skal aldrei verða mitt ríki".

Og rökkrið tók að færast yfir, og hann sneri sér að okkur og sagði: „Förum niður af fjallinu. Nótt er í nánd. Göngum meðan enn er dagur".

Síðan gekk hann niður úr hæðunum og við fylgdum honum. Og Júdas fylgdi á eftir, langt að baki okkar.

Þegar við komum niður á láglendið var komið kvöld.

Og Tómas sonur Díofanusar sagði við

hann: „Meistari, það er komið myrkur og við getum ekki lengur ratað veginn. Ef það er þinn vilji, þá leiddu okkur að borgarljósunum, því þar getum við ef til vill fengið mat og húsaskjól“.

Og Jesús svaraði Tómasi og sagði: „Svangir voruð þið, þegar ég fór með ykkur til fjalla, og enn svengri eruð þið þegar ég kem með ykkur niður á láglendið. En þessa nótt get ég ekki verið hjá ykkur. Ég vil vera einn“.

Þá gekk Símon Pétur fram og sagði: „Meistari, lát okkur ekki ganga eina í myrkri. Leyfðu okkur að vera hjá þér, líka hér á þessum ókunna stað. Nóttin og skuggar næturinnar líða hjá og brátt mun aftur morgna. Allt er gott ef þú ert hjá okkur“.

Og Jesús svaraði: „Þessa nótt eiga refir sér greni, og fuglar himinsins eiga sér hreiður, en Mannssonurinn á hvergi höfði sínu að að halla. Og nú verð ég að vera einn. Ef þið þarfnist mín, getið þið fundið mig við vatnið, þar sem ég fann ykkur“.

Við gengum frá honum með hryggð í hjarta, því við vildum ekki yfirgefa hann.

Oft námum við staðar og snerum okkur við til að horfa á eftir honum, og við sáum hann í einmana tign sinni hverfa til vesturs.

Sá eini sem ekki leit við til að horfa á hann í einsemd sinni var Júdas Ískaríot.

Og uppfrá þessu varð Júdas fámáll og fjarlægur. Og mér sýndist einhver ógn búa í augum hans.

# Anna, móðir Maríu

Dóttursonur minn, Jesús, fæddist í Nazaret í janúarmánuði. Nóttina sem hann fæddist komu til okkar menn frá Austurlöndum. Það voru persar sem komu til Esdrelon með úlfaldalest á leið til Egyptalands.

Og ég bauð þá velkomna og sagði: „Þessa nótt fæddi dóttir mín son. Ég bið ykkur að fyrirgefa að ég get ekki þjónað ykkur eins og gestgjafa ber“.

Þeir þökkuðu mér fyrir að hafa veitt sér húsaskjól. Og er þeir höfðu neytt matar, sögðu þeir við mig: „Okkur langar til að sjá hinn nýfædda son“.

Nú var sonur Maríu yndislegur ásýndum og María sjálf var fögur kona.

Og þegar persarnir sáu Maríu og barn hennar, tóku þeir gull og silfur upp úr

pyngjum sínum og myrru og reykelsi og lögðu þetta allt við fætur barnsins.

Því næst krupu þeir á kné og báðust fyrir á framandi tungu sem við ekki skildum.

Og þegar við vísuðum þeim til svefnherbergisins, sem við höfðum búið þeim, voru þeir fullir lotningar vegna þess sem þeir höfðu séð.

Þegar morgunninn rann upp héldu þeir leiðar sinnar til Egyptalands.

Þegar þeir kvöddu, sögðu þeir við mig: „Barnið er aðeins eins dags gamalt og samt höfum við séð ljós Guðs í augum þess og bros Guðs okkar á vörum þess.

Við biðjum þig að vernda það, til þess að það geti verndað ykkur öll".

Og meðan þeir sögðu þetta, stigu þeir á bak úlföldum sínum og við sáum þá aldrei framar.

Mér virtist undrun Maríu yfir frumburði sínum vera meiri en gleðin.

Lengi sat hún og horfði á barnið sitt og síðan leit hún út um gluggann eins og hún sæi sýnir í fjarska.

Og það myndaðist djúp milli okkar.

Og sonurinn óx að vexti og visku og hann var ólíkur öðrum börnum.

Hann var oft annars hugar og það var erfitt að stjórna honum og ég gat ekki lagt hönd á hann.

En öllum í Nazaret þótti vænt um hann og innst inni vissi ég hvers vegna.

Oft tók hann mat okkar og gaf hann vegfarendum. Og sætindi, sem ég gaf honum, gaf hann öðrum börnum áður en hann bragðaði á þeim sjálfur.

Stundum klifraði hann upp í ávaxtatrén í garði mínum til að lesa ávexti, en aldrei handa sjálfum sér.

Og hann þreytti hlaup við aðra sveina. En þó að hann væri fóthvatari en þeir, þá hægði hann á sér til þess að þeir kæmu fyrr í mark.

Stundum þegar ég háttaði hann átti hann til að segja: „Segðu móður minni og hinum að aðeins líkami minn muni sofa. Andi minn verður hjá þeim þar til andi þeirra kemur til mín á morgun".

Og margt annað undarlegt sagði hann

þegar hann var lítill drengur, en ég er of gömul til að muna það.

Nú er mér sagt að ég geti ekki séð hann framar. En hvers vegna ætti ég að trúa því?

Ég heyri enn hlátur hans og fótatak í húsi mínu. Og hvert sinn sem ég kyssi dóttur mína á kinnina, finn ég ilm hans í hjarta mínu, og það er eins og ég faðmi líkama hans.

En hvernig get ég skilið að dóttir mín talar aldrei við mig um frumburð sinn?

Stundum finnst mér að ég þrái hann heitar en hún. Hún er staðföst og lætur atburðina ekki á sig fá, en hjarta mitt bráðnar og ég verð að tala.

Veit hún eitthvað sem ég veit ekki? Hvers vegna segir hún mér ekki hug sinn?

# Asaf, kallaður ræðumaðurinn frá Týrus

Hvað á ég að segja um ræðu hans? Var það maðurinn sjálfur sem gaf orðunum mátt og snart þá sem á hlýddu? Hann var fagur og ásjóna hans skínandi björt.

Karlmenn og konur störðu á hann, fremur en hlusta á röksemdir hans. En stundum talaði hann af mætti andans og sá máttur sigraði þá sem á hann hlustuðu.

Í æsku hlustaði ég á mestu ræðumenn í Rómaborg, Aþenu og Alexandríu. En ungi maðurinn frá Nazaret var ólíkur þeim öllum.

Þeir beittu orðum af snilld til að hrífa þá sem á hlýddu, en þegar ég hlustaði á hann, var sem andi minn yrði frjáls og færi um ókunna heima.

Hann gat sagt sögu eða talað í líkingum,

og margar sögur hans og líkingar höfðu aldrei heyrst áður í Sýrlandi. Það var eins og hann spynni þær úr árstíðunum, líkt og tíminn sjálfur spynni aldir og kynslóðir.

Hann gat byrjað sögu á þessa leið: „Sáðmaður einn gekk út á akurinn til að sá fræi sínu“.

Eða: „Einu sinni var ríkur maður sem átti marga víngarða“.

Eða: „Fjárhirðir einn taldi sauði sína að kvöldi og sá að einn vantaði“.

Orð hans fengu marga til að finna nýjan heim hið innra með sér og muna gleymda fortíð.

Innst inni erum við öll sáðmenn og við höfum yndi af víngörðum, og í löndum minninga okkar er að finna hirði og hjörð og týnda sauðinn.

Og þar er plógjárnið, vínpressan og kornhlaðan.

Hann þekkti rætur okkar innsta eðlis og vissi úr hvaða þræði það var ofið.

Hinir grísku og rómversku ræðumenn töluðu við áheyrendur sína um lífið eins og

mannshugurinn segir okkur að það sé. Maðurinn frá Nazaret talaði um langanir sem búa í hjartanu.

Þeir skoðuðu lífið með augum sem voru aðeins lítið eitt skarpari en mín og þín. Hann sá lífið í ljósi Guðs.

Oft finnst mér að hann tali til fjöldans eins og fjall sem talar til láglendis.

Og í ræðu hans fann ég kraft sem ræðumenn Aþenu og Rómar ekki þekktu.

# María Magdalena

Það var í júnímánuði sem ég sá hann í fyrsta sinn. Hann gekk yfir akurinn þegar ég fór þar hjá með þernum mínum. Og hann var einn.

Göngulag hans var ólíkt göngulagi annarra manna, og hvernig hann bar sig líktist engu sem ég hafði áður séð.

Menn ganga ekki um jörðina á þennan hátt. Og jafnvel nú veit ég ekki hvort hann gekk hægt eða hratt.

En þernur mínar bentu á hann og töluðu í hvíslingum. Ég nam staðar um stund og veifaði til hans í kveðjuskyni. En hann leit ekki við mér.

Og ég hataði hann og varð þögul. Og ég varð köld, eins og ég hefði lent í hríðarbyl. Og ég skalf.

Þá nótt sá ég hann í draumi, og seinna var mér sagt að ég hefði hljóðað í svefninum og mér varð órótt.

Það var kominn ágúst þegar ég sá hann aftur. Gegnum gluggann sá ég hann sitja í skugga kýprusviðarins í garði mínum. Hann sat hreyfingarlaus eins og hann væri höggvinn í stein og líktist helst höggmyndunum í Antíokkíu og borgunum fyrir norðan.

Þræll minn, egyptinn, kom til mín og sagði: „Þessi maður er kominn aftur. Hann situr þarna úti í garðinum".

Ég horfði lengi á hann, og ég varð snortin af fegurð hans.

Líkami hans var fullur yndisþokka og samræmis.

Ég klæddi mig í kyrtil frá Damaskus, og ég yfirgaf hús mitt og hélt til fundar við hann.

Var það einsemd mín eða töfrar hans sem drógu mig til hans? Var það löngunin í augum mínum sem þráði fegurð, eða var það þokki hans sem leitaði augna minna?

Jafnvel nú veit ég það ekki.

Ég gekk til hans í ilmandi fötum mínum á gullnum skóm, skónum sem rómverski hershöfðinginn gaf mér. Þegar ég var komin alveg til hans, sagði ég: „Góðan dag!“

Og hann sagði: „Góðan dag, Mirjam!“

Og hann horfði á mig, og enginn maður hafði séð mig áður eins og alsjáandi augu hans sáu mig. Það var eins og ég stæði nakin fyrir augliti hans, og ég fór hjá mér.

Og þó hafði hann aðeins boðið mér góðan dag.

Og þá sagði ég við hann: „Má ég ekki bjóða þér að ganga inn í hús mitt?“

Og hann sagði: „Er ég ekki nú þegar í húsi þínu?“

Þá skildi ég ekki við hvað hann átti, en ég skil það nú.

Og ég sagði: „Má ekki bjóða þér brauð og vín í húsi mínu?“

Og hann sagði: „Jú, Mirjam, en ekki núna“.

Ekki nú, ekki nú, sagði hann, og himinn, haf og jörð endurtóku þessi tvö orð. Hér talaði lífið við dauðann.

Því mundu það, vinur minn, að ég var dauð. Ég var kona sem var aðskilin sál minni. Þá var ég ekki sú vera sem þú sérð hér. Ég tilheyrði öllum mönnum og engum. Þeir sögðu mig bersynduga, þeir sögðu að ég væri haldin sjö illum öndum. Ég var fordæmd og ég var öfunduð.

Þegar morgunsólin í augum hans skein inn í augu mín, bliknuðu allar stjörnur nætur minnar, og ég varð Mirjam, aðeins Mirjam, kona sem var horfin úr sínum gamla heimi og endurfædd á nýjum stað.

Og nú sagði ég aftur við hann: „Kom þú inn í hús mitt og neyttu með mér brauðs og víns“.

Og hann sagði: „Hvers vegna býður þú mér að vera gestur þinn?“

Og ég sagði: „Ég bið þig að koma inn í hús mitt“. Og allur líkami minn og öll sál mín kölluðu á hann.

Og hann horfði á mig. Og hádegissólin í augum hans skein á mig, og hann sagði: „Þú hefur átt marga elskhuga, en ég einn elska þig. Aðrir menn elska sjálfa sig í návist

þinni. Ég elska þig sjálfa. Aðrir menn sjá í þér fegurð sem bliknar fljótar en þeir sjálfir. En ég sé í þér fegurð sem ekki mun fölna. Þótt árin líði mun hún ekki óttast að skoða sig í spegli, og hún mun aldrei þurfa að fara hjá sér.

Ég einn elska hinn ósýnilega anda þinn".

Því næst sagði hann lágum rómi: „Nú skulum við skilja. Þar sem þú átt þetta kýprustré og þú vilt ekki að ég sitji í skugga þess, þá mun ég fara leiðar minnar".

Og ég hrópaði á hann og sagði: „Meistari, kom inn í hús mitt. Ég á reykelsi til að brenna þér til heiðurs og silfurfat til að þvo fætur þína. Þú ert ókunnur maður, en þó nákominn mér. Ég sárbið þig að koma inn í hús mitt".

Þá stóð hann á fætur og leit á mig, eins og árstíðirnar horfa á jörðina, og hann brosti. Og hann sagði aftur: „Allir menn elska þig vegna sín. Ég elska þig vegna þín."

Og því næst gekk hann leiðar sinnar.

Þannig hefur enginn maður gengið í burtu. Var það mildur vestanblær sem fór

um garð minn? Eða var það stormur sem feykti öllu burt af grunni sínum?

Ég vissi það ekki, en þennan dag réði sólarlagið í augum hans niðurlögum drekans í brjósti mér. Og ég varð kona, ég varð Mirjam. Mirjam frá Mijdel.

# Fílemon, grískur lyflæknir

Meðal síns fólks var Nazareinn mestur lækna. Enginn annar maður vissi jafn mikið um líkama okkar, líffæri hans og alla eiginleika.

Hann læknaði sjúkdóma sem grikkir og egyptar kunnu engin ráð við. Sagt er að hann geti jafnvel vakið hina dauðu til lífsins. Og hvort sem það er satt eða ekki satt sýnir þetta hæfni hans, því að miklar sögur fara af þeim einum sem gerir stóra hluti.

Það er líka sagt að Jesús hafi farið til Indlands og til landsins milli fljótanna, og að prestarnir hafi frætt hann um leyndadóma líkamans.

Samt gæti vísdómur hans komið beint frá guðunum, en ekki frá prestunum. Því það sem alla tíð hefur verið dulið mönnum,

getur einum manni birst í leiftursýn. Og Appolló getur lagt hönd sína á myrkvað hjarta og fyllt það vísdómi.

Margar dyr opnuðust mönnum frá Týrus og frá Tíberías, og þessi maður gat opnað vissar dyr sem öðrum voru lokaðar. Hann gekk inn í musteri sálarinnar, sem er líkaminn, og hann athugaði illa anda sem gera skynjun manna öfugsnúna, og hann athugaði líka góða anda sem láta gott af sér leiða.

Mér virtist hann kunna að nota mátt andstæðra afla til lækninga sinna, þegar hann gerði sjúka heilbrigða. En hann gerði það með aðferð sem er óþekkt vísindum okkar. Sótthiti hvarf við fislétta snertingu hans. Kröm manna læknaði hann með nærveru sinni. Hann þekkti vessann sem verður til bak við barkann, en hvernig hann gat stjórnað honum með höndum sínum veit ég ekki. Hann þekkti stálið fyrir innan ryðið, en hvernig hann hreinsaði sverðið og fékk það til að skína, getur enginn maður vitað.

Stundum virtist mér hann skynja sársauka alls sem til er undir sólinni og veita því

blessun sína og líkna því, ekki aðeins með vísdómi sínum, heldur líka með því að vekja það til meðvitundar um þann mátt sem læknar.

Samt leit hann ekki fyrst og fremst á sig sem lækni. Hugur hans var bundinn við trú og stjórnun þessa lands, og mér þykir það miður því ofar öllu þörfnumst við heilbrigðs líkama. En þegar þessir sýrlendingar veikjast biðja þeir fremur um útskýringar en læknislyf.

Og það er raunalegt að mesti læknir, sem uppi hefur verið, eyði tíma sínum í ræðuhöld á torgum.

# Símon, kallaður Pétur

Ég stóð á bakka Genesaretvatnsins þegar ég fyrst sá Jesú, herra minn og meistara.

Bróðir minn Andrés var með mér, og við bjuggumst til að leggja net okkar í vatnið.

Öldurnar voru háar og krappar, og við veiddum fáa fiska. Og við vorum í daufu skapi.

Allt í einu stóð Jesús hjá okkur, eins og hann hefði birst skyndilega, því við höfðum ekki séð hann koma.

Hann ávarpaði okkur með nafni og sagði: „Ef þið viljið fylgja mér, skal ég vísa ykkur út á vík sem er full af fiski“.

Og þegar ég horfði á andlit hans féll netið úr höndum mér, því nýtt ljós kviknaði í brjósti mér og ég þekkti hann aftur.

Og bróðir minn, Andrés, tók til máls og

sagði: „Við þekkjum allar víkur við þessa bakka og vitum að í illum veðrum leitar fiskurinn dýpra en net okkar ná“.

Og Jesús svaraði: „Fylgið mér að bökkum stærri vatna. Ég mun gera ykkur að mannaveiðurum. Og net ykkar skulu aldrei verða tóm“.

Og við yfirgáfum bát okkar og net okkar og fylgdum honum.

Sjálfum fannst mér ég dreginn af ósýnilegum mætti sem fylgdi honum.

Ég gekk fast við hlið hans, frá mér numinn og fullur undrunar, og bróðir minn, Andrés, fylgdi á eftir, ringlaður og undrandi.

Og þar sem við gengum eftir sandinum herti ég upp hugann og sagði við hann: „Herra, ég og bróðir minn viljum ganga í spor þín og þangað sem þú ferð, þangað förum við líka. En gætir þú komið heim með okkur í kvöld, þá væri heimsókn þín okkur mikill heiður. Hús okkar er ekki stórt og þar er lágt til lofts og við getum aðeins boðið þér fátæklegt fæði. En viljirþ ú dveljast í hreysi

okkar verður það okkur sem höll. Og viljir þú brjóta brauðið með okkur, gerir nærvera þín okkur öfundsverða líkt og við værum höfðingjar".

Og hann svaraði: „Já, ég vil vera gestur ykkar í kvöld".

Og ég gladdist í hjarta mínu.. Og við fylgdum honum þöglir að húsi okkar.

Þegar við stóðum við dyrnar sagði Jesús: „Friður sé með þessu húsi og með þeim sem þar búa".

Því næst gekk hann inn og við fylgdum honum.

Eiginkona mín og tengdamóðir mín og dóttir komu á móti honum. Þær veittu honum lotningu og krupu niður og kysstu klæðafald hans.

Undrun þeirra var mikil yfir að hann, hinn útvaldi og elskaði, var kominn til að gista hjá okkur. Þær höfðu séð hann fyrr við ána Jórdan, þegar Jóhannes skírari kynnti lýðnum hver hann var.

Og kona mín og móðir hennar fóru strax að sýsla við matinn.

Bróðir minn, Andrés, var að eðlisfari feiminn en trú hans á Jesú var dýpri en mín.

Dóttir mín, sem þá var aðeins tólf ára, stóð hjá honum og hélt í klæðafald hans, líkt og hún óttaðist að hann færi frá okkur og færi burt út í nóttina. Hún þrýsti sér upp að honum eins og týnt lamb, sem fundið hefur hirði sinn.

Loks settumst við undir borð, og hann braut brauðið og útdeildi víninu, og hann ávarpaði okkur: „Vinir mínir, sýnið mér þann heiður að neyta matarins með mér, eins og Faðirinn hefur heiðrað okkur með að gefa okkur hann".

Þetta sagði hann áður en hann byrjaði að borða, því hann vildi fylgja gömlum sið, að heiðursgestur sé gestgjafi.

Og þar sem við sátum hjá honum kringum borðið, fannst okkur við sitja við nægtaborð hins mikla konungs.

Dóttir mín, Petrónella, sem var ung og saklaus, starði á andlit hans og fylgdist með hverri hreyfingu handa hans.

Og ég sá að augu hennar urðu vot af tárum.

Þegar hann stóð upp frá borðinu, fylgdum við honum og settumst kringum hann í laufskálanum.

Hann talaði til okkar og við hlýddum á, og hugur okkar hóf sig til flugs.

Hann talaði um endurfæðingu mannsins og hlið himnaríkis og engla sem stigu niður til jarðar og fluttu heiminum frið og fögnuð, og um verndarengla sem báru bænir mannanna og þrár að hásæti Guðs.

Þá horfði hann í augu mér, inn í innstu afkima sálar minnar. Og hann sagði: „Ég hef valið þig og bróður þinn, og þið komið með mér.

Þið hafið unnið erfið störf og borið þungar byrðar. Nú mun ég veita ykkur hvíld. Losið ykkur undan okinu og lærið af mér, því í hjarta mínu er friður, og ég mun gefa anda ykkar fyllingu og leiða ykkur inn í ljóssins ríki“.

Þegar hann mælti þessi orð stóðum við,

bróðir minn og ég, fyrir framan hann, og ég sagði við hann: „Meistari, við munum fylgja þér til enda veraldarinnar. Og þótt við ættum að bera fjöll á herðunum, þá mundum við með gleði bera þá byrði með þér. Og eigi það fyrir okkur að liggja að falla utangarðs, þá föllum við á leið til himna og við munum ekki æðrast".

Og bróðir minn, Andrés, tók til máls og sagði: „Meistari, við viljum vera þræðir í vef þínum. Ger þú okkur, ef við erum þess verðir, að hluta af því mynstri sem ofið er í skikkju Guðs".

Og eiginkona mín leit á okkur, og tárin runnu niður kinnarnar, og það var gleði í rödd hennar þegar hún sagði:

„Blessaður sért þú, sem kemur í nafni Guðs. Blessuð sé sú kona sem ól þig og þau brjóst sem gáfu þér að drekka".

Og dóttir mín, sem var aðeins tólf ára, sat við fætur hans, og hún þrýsti sér að honum.

Tengdamóðir mín, sem sat við dyrnar, sagði ekki neitt. Hún grét hljóðlega og sjal hennar var vott af tárum.

Jesús gekk til hennar, og hann lyfti andliti hennar upp að sínu, og hann sagði við hana: „Allt þetta er af þér fætt. Tár þín eru gleðitár og ég mun geyma þau í minni".

Og nú rann tunglið okkar góða upp fyrir sjóndeildarhringinn. Og Jesús horfði á það um stund og því næst sneri hann sér að okkur og sagði: „Það er áliðið. Gangið til náða og Guð varðveiti ykkur. Ég mun verða hér í laufskálanum til morguns. Þennan dag hef ég kastað neti mínu og náð tveimur mönnum. Ég er ánægður. Nú óska ég ykkur góðrar nætur".

Þá sagði tengdamóðir mín: „En við höfum búið þér hvílu inni í húsinu, og ég bið þig, kom þú inn og hvíl þig".

En hann svaraði henni. „Sannarlega mun ég hvílast, en ekki undir þaki. Leyf mér þessa nótt að hvíla í skini stjarnanna undir greinum vínviðarins".

Þá flýtti hún sér að bera út til hans dýnu og sængurfatnað. Og hann brosti við henni og sagði: „Svo að ég á að liggja hér í tvíbreiðu rúmi".

Því næst fórum við inn og skildum hann eftir einan, og dóttir mín var síðust til að koma inn, og hún hafði ekki augun af honum fyrr en ég lokaði dyrunum.

Þannig voru mín fyrstu kynni af herra mínum og meistara.

Og þótt langt sé nú liðið, man ég allt þetta enn jafnskýrt og það hefði gerst í dag.

## Æðsti presturinn Kaífas

Þegar við tölum um þennan mann, Jesú og dauða hans, verður að hafa tvö grundvallaratriði í huga.

Það er óhjákvæmileg skylda mín að fara nákvæmlega eftir lögbókum okkar, Tóru. Og auðvitað er þetta ríki undir vernd Rómaveldis.

Nú reis þessi maður upp og beygði sig hvorki fyrir mér né fyrir Róm. Hann eitraði huga almúgans og hann snerist af kynngimögnuðum krafti móti mér og móti keisaranum.

Jafnvel þrælar mínir og ambáttir sýndu þvermóðsku og uppreisnaranda eftir að hafa hlustað á ræður hans á torginu. Sum þeirra fóru frá mér og flúðu til fyrri heimkynna sinna úti í eyðimörkinni.

Gleymið ekki, að Tóran er grundvöllur

lífs okkar og okkar aðalvörn. Það grefur enginn undan tilveru okkar meðan við varðveitum mátt hennar. Það byltir enginn Jerúsalem meðan múrar hennar hvíla á hinum forna hornsteini sem lagður var af Davíð.

Eigi niðjar Abrahams að halda velli og dafna má ekki hagga við þessum grunni.

Og þessi maður, Jesús, fór með fals og leiddi menn afvega. Ég ruddi honum úr vegi með hreinni samvisku og án þess að hugarró mín raskaðist. Og öllum, sem hallmæla Móselögum eða reyna að vanvirða helgan arf okkar, mun ég ryðja úr vegi.

Við Pontíus Pílatus sáum að þessi maður var hættulegur og það væri hyggilegt að stöðva hann. Ég mun sjá um að fylgjendur hans verði einnig stöðvaðir, svo að bergmál orða hans þagni.

Eigi Júdea að lifa, verður að troða alla sem rísa gegn henni niður í svaðið. En eigi Júdea að falla, skal ég hylja grátt hár mitt ösku, fleygja burt þessari skikkju Arons og klæðast hæruserk, uns ég hverf til fulls úr þessum heimi.

# Jóhanna, kona þjóns Heródesar

Jesús tók sér aldrei eiginkonu en hann var vinur kvenna og vinátta hans var þeim dýrmætari öllu öðru.

Og honum þótti vænt um börn á þann hátt sem börnum er dýrmætast. Hann sýndi þeim skilning og tillitssemi. Hann var öllum andlegur faðir, bróðir og sonur. Hann átti til að taka barn á kné sér og segja: „Þeirra er valdið og frelsið, og þeirra er ríki Guðs“.

Þeir segja að Jesús virði ekki Móselög og hann sé vinur hinna bersyndugu í Jerúsalem og nágrenni hennar.

Ég var sjálf ein hinna bersyndugu, vegna þess að ég elskaði mann sem var ekki eiginmaður minn, og hann var í flokki saddúkea.

Og dag einn, þegar ástvinur minn var hjá mér, kom hópur saddúkea mér að óvarri í

húsi mínu. Þeir tóku mig til fanga en elskhugi minn fór frá mér og lét mig eina eftir í höndum þeirra.

Þeir fóru með mig til torgsins þar sem Jesús flutti boðskap sinn.

Það var ætlun þeirra að nota mig til að leiða hann í gildru.

En Jesús dæmdi mig ekki. Þá sem reyndu að láta hann verða sér til skammar, fékk hann til að skammast sín. Og hann ávítaði þá.

Og mig bað hann að fara leiðar minnar.

Frá þeirri stundu urðu bragðlausir ávextir lífs míns sætir og ilmlaus blóm mín angandi. Ég varð kona, laus við flekkaðar minningar. Ég varð frjáls, og ég stóð upprétt að nýju.

# Rafka, brúðurin í Kana

Þetta gerðist áður en hann varð þekktur meðal lýðsins.

Ég var í garði móður minnar að sýsla við rósarunna þegar hann nam staðar við hliðið.

Og hann sagði: „Ég er þyrstur. Viltu gefa mér vatn úr brunni þínum?“

Ég hljóp inn og sótti silfurbikar og fyllti hann af vatni og ég setti út í það nokkra dropa úr jasmínkerinu.

Og hann tæmdi bikarinn og var ánægður.

Því næst leit hann á mig og sagði: „Blessun mín skal fylgja þér“.

Þegar hann sagði þetta var eins og stormur færi um huga minn. Ég var ekki lengur feimin og ég sagði: „Ég er heitin manni frá Kana í Galíleu. Brúðkaup okkar verður hinn fjórða dag í næstu viku. Vilt þú

koma í brúðkaup mitt og blessa það með nærveru þinni?“

Og hann svaraði: „Ég skal koma, barnið mitt“.

Takið eftir að hann sagði „barnið mitt“. Samt var hann sjálfur ungur maður, og ég var næstum tuttugu ára.

Því næst hélt hann áfram eftir veginum.

Og ég stóð eftir við hliðið þar til móðir mín kallaði á mig.

Á fjórða degi næstu viku var ég leidd í hús brúðguma míns og gift honum.

Og Jesús kom og með honum móðir hans og bróðir hans, Jakob.

Og þau sátu með veislugestunum við borðið og vinkonur mínar sungu brúðkaupssálma Salómons. Og Jesús borðaði mat okkar og drakk vín okkar og brosti til mín og til fólksins.

Og hann hlustaði vel á alla söngvana um unga víngerðarmanninn sem elskaði dóttur húsbónda síns og fór með hana í hús móður sinnar, og um konungssoninn sem hitti

öskubusku og bar hana heim í ríki sitt og krýndi hana kórónu föðurins.

Og það var eins og hann hlustaði líka á annan söng sem ég ekki heyrði.

Um sólarlag kom faðir brúðguma míns til móður Jesú og hvíslaði: „Við eigum ekki meira vín handa gestunum. Og dagurinn er enn ekki liðinn".

Jesús heyrði hvað hvíslað var og hann sagði: „Gjafarinn veit að enn er til nóg vín".

Og þannig reyndist það. Og meðan gestirnir voru hjá okkur var til nóg af góðu víni handa öllum sem drekka vildu.

Skömmu síðar fór Jesús að tala við okkur. Hann talaði um undur himins og jarðar, um ójarðnesk blóm sem opnast þegar nóttin hylur jörðina, og um jarðnesk blóm sem opnast þegar dagsljósið lætur stjörnurnar hverfa.

Og hann sagði dæmisögur og talaði í líkingum og í rödd hans voru töfrar sem fengu okkur til að stara á hann, líkt og við sæjum sýnir. Og við gleymdum bikar og diski.

Og meðan ég hlustaði á hann, fannst mér ég komin í fjarlægt og óþekkt land.

Eftir nokkra stund sagði einn gestanna við föður brúðguma míns: „Þú hefur geymt besta vínið þar til síðast. Aðrir gestgjafar gera það ekki“.

Og allir trúðu því að Jesús hefði gert kraftaverk til að þeir fengju meira og betra vín í lok veislunnar en í byrjun hennar.

Ég hélt líka að Jesús hefði bætt við víni, en ég undrast ekki því orð hans voru kraftaverk.

Og auðvitað mundi ég vel rödd hans, alveg þar til ég hafði fætt mitt fyrsta barn.

Og ennþá muna allir í þorpinu okkar og í þorpunum hér í grenndinni orð gestsins okkar. Og menn segja: „Andi Jesú frá Nazaret er betri en bestu eðalvín“.

# Persneskur spekingur í Damaskus

Ekki get ég rætt um örlög þessa manns eða vitað hvernig fer fyrir lærisveinum hans.

Fræ inni í epli er falinn garður. Og þó verður þetta fræ að engu ef það fellur í grýtta jörð.

En mitt álit er: Hinn gamli guð Ísraels er miskunnarlaus. Guð Ísraels ætti að vera mildur og fyrirgefa mönnum og líta til þeirra í náð. Hann ætti að koma til þeirra eins og geislar sólar og ganga veginn með misvitrum mönnum, fremur en sitja um alla eilífð í dómarasæti sínu og mæla bresti þeirra og vega misgerðir.

Ísrael ætti að gera sér guð sem er ekki afbrýðissamur, guð sem er fullkominn og ekki hefnir sín, síst í þriðja og fjórða lið.

Fólkið hér í Sýrlandi er eins og fólk um

allan heim. Það horfir á sitt eigið vit í spegli og finnur þar guðdóm sinn. Það skapar guð sinn í eigin mynd og tilbiður hana.

Sannleikurinn er sá, að mannfólkið tilbiður innri þrá sína, biður um að allir draumar þess rætist. Vötn andans eru ekki til, önnur en mannssálin. Og sálin er djúpið sem kallar á sjálft sig. Það er engin önnur rödd sem talar, ekkert annað eyra sem heyrir.

Jafnvel við persar þykjumst sjá andlit okkar í sólinni og líkami okkar dansa í eldinum sem við kveikjum á altarinu.

Þann guð, sem Jesús boðar, kallar hann Föður. Fylgjendum Jesú á hann að vera nákominn og hann á að heyra allar bænir þeirra.

Guðir egypta eru flúnir af stalli inn í eyðimerkur Núbíu þar sem þeir reika um meðal hinna fáfróðu.

Guðir grikkja og rómverja eru að hníga inn í sitt eigið sólarlag. Þeir voru of líkir mönnum til þess að menn gætu virt þá. Dimmir skógar, þar sem helgisagan um þá

fæddist, falla nú fyrir öxum aþeninga og alexandríumanna.

Hinir helgu staðir þessa lands eru líka óvirtir af lögmönnum frá Beirút og ungum einsetumönnum frá Antíokkíu.

Aðeins gamlar konur og þreyttir menn sækja nú musteri feðranna. Aðeins hrumir menn, komnir að leiðarlokum, leita upphafs síns.

En þessi Jesús, þessi maður frá Nazaret, hann hefur talað um guð sem er of mikill til að hafa ekki rúm fyrir sál sérhvers manns, of vitur til að hegna mönnum, of kærleiksríkur til að muna syndir barna sinna. Og guð þessa Nazarea á að koma til allra á þessari jörð og setjast við arineldinn í hvers manns húsi. Og hann á að verða öllum mönnum til blessunar og ljós á leiðum þeirra.

En minn guð er guð Zaraþústra, sá guð er sólin á himni og eldur á jörð og ljósið hið innra. Og mér er þetta nóg: Ég hef enga þörf fyrir neinn annan guð.

# Davíð, einn af lærisveinunum

Ég skildi ekki líkingar hans. Ég skildi ekki merkingu orða hans. Ekki fyrr en hann var farinn. Nei, ég skildi hann ekki. Ekki fyrr en orð hans urðu fyrir augum mínum að veruleika sem breytti mönnum.

Eitt vil ég segja þér: Það var kvöld, og ég sat inni í húsi mínu og rifjaði upp fyrir mér orð hans og verk til að skrifa þetta hjá mér. Þá brutust þrír þjófar inn í húsið. Ég vissi að þeir komu til að ræna mig. En svo niðursokkinn var ég í þessa iðju mína að ég hreyfði mig ekki. Spurði þá ekki einu sinni: „Hvað eruð þið að gera hér?“

Ég hélt áfram að skrifa minningar mínar um meistarann.

Þegar þjófarnir voru farnir minntist ég

orða hans: „Sá sem á tvær skikkjur, gefi aðra þeim sem enga á."

Og ég skildi orð hans.

Enginn gat stöðvað mig við að skrifa orð hans, jafnvel ekki þjófur sem ætlaði að ræna mig aleigunni.

Ég er maður sem get vel varið sjálfan mig og eigur mínar, en nú veit ég hvar það er að finna, sem dýrmætara er.

# Lúkas

Jesús fyrirleit og hæddist að skinhelgi og hann fór hörðum orðum um hræsnara. Rödd hans var sem þruma í eyrum þeirra og þeir urðu niðurlútir.

Þeir óttuðust hann og vildu hann feigan. Eins og moldvörpur í myrkri reyndu þeir að grafa undan starfi hans, en hann féll ekki í gryfjur þeirra.

Hann hló að þeim, því hann vissi að andinn lætur ekki að sér hæða og verður ekki leiddur í fallgryfjur.

Hann sá alla þá sem vantar vilja og þrótt og þá sem eru reikandi og falla á leið sinni upp á fjallið.

Og þeir áttu allir ástúð hans. Hann vildi reisa þá við og bera þeirra byrðar. Já, hann

vildi láta veikleika þeirra styðjast við styrk sinn.

Hann dæmdi ekki lygarann eða þjófinn eða morðingjann, en hann dæmdi hræsnarann því andlit hans er gríma og höndin dulbúin.

Oft hef ég íhugað það hjarta sem stendur opið þeim sem koma utan af eyðimörk sinni inn í helgidóm þess, en er harðlæst skinhelgum hræsnurum.

Dag einn, þegar við hvíldumst í aldingarðinum, sagði ég við hann: „Meistari, þú fyrirgefur okkur og huggar syndara, hina veiklunduðu og vesælu, alla nema hræsnarana“.

Og hann sagði: „Þú hefur valið orð þín vel þegar þú kallar syndara hina veiklunduðu og hina vesælu. Ég fyrirgef þeim líkamlega vesöld og andlegan veikleika. Ófullkomleiki þeirra er til vegna erfða frá feðrunum og ágirndar samferðamanna þeirra.

En ég ræðst gegn hræsnaranum vegna þess að hann sjálfur leggur ok á hina saklausu og veiklunduðu. Hinir veikgeðja, sem

kallaðir eru syndarar, eru eins og ófiðraðir ungar sem detta úr hreiðri sínu. Hinn skinhelgi hræsnari er ránfuglinn sem situr á klettasnös og bíður eftir bráð sinni.

Hinir veiklunduðu eru fólk, sem villist í eyðimörk. Hræsnarinn er ekki villtur. Hann þekkir veginn en glottir þegar menn hrekjast í illum vindum á eyðisöndum.

Þess vegna tek ég ekki á móti honum".

Þannig talaði meistari okkar, og ég skildi hann ekki. En ég skil hann nú.

Hinir skinhelgu hræsnarar lögðu hönd á hann, og þeir dæmdu hann og mikluðust af verki sínu. Þeir vitnuðu í Móselög í æðsta ráðinu og notuðu þau sem sönnun gegn honum.

Og þeir, sem brjóta lög hvern einasta morgun og hvert einasta kvöld, dæmdu hann til dauða.

# Matteus: Fjallræðan

Haustdag einn fór Jesús með mig og aðra vini sína upp til fjalla. Jörðin angaði og sýndi djásn sín eins og konungsdóttir sem ber sitt fegursta skart í brúðkaupi sínu. Og himinninn var brúðgumi hennar.

Þegar við komum upp á fjallið, nam Jesús staðar í lárviðarlundi og sagði: „Hvílið ykkur hér, opnið huga ykkar og hjarta því að margt þarf ég að segja ykkur“.

Við settumst í grasið með ilm sumarblóma í vitum og Jesús sat mitt á meðal okkar.

Og Jesús sagði:

„Sælir eru einlægir í anda. Sælir eru þeir sem ekki eru bundnir af jarðneskum eigum, því að þeir munu frjálsir verða.

Sælir eru syrgjendur, því að þeir munu síðar gleðjast.

Sælir eru þeir sem hungrar og þyrstir eftir sannleika og fegurð, því að þeir munu saddir verða og þorsta þeirra svalað með hreinu vatni.

Sælir eru góðsamir, því að þeim mun góðvild sýnd.

Sælir eru hjartahreinir, því að þeir munu Guð sjá.

Sælir eru miskunnsamir, því þeim mun miskunnað verða.

Sælir eru þeir sem flytja frið því andi þeirra lyftir sér upp yfir orrustuvöllinn, og þeir breyta markaðstorgi í friðsælan garð.

Sælir eru þeir sem ofsóttir verða fyrir réttlætis sakir, því þeirra er himnaríki.

Gleðjist, því þið hafið fundið himnaríki hið innra. Skáld voru ofsótt fyrir að yrkja um þetta ríki. Einnig þið verðið ofsóttir, og það er ykkar heiður og laun ykkar. Þið eruð salt jarðar. Ef saltið dofnar, hvernig á þá að salta fæðu sálarinnar? Þið eruð ljós heimsins. Setjið ekki þetta ljós undir mæliker.

Látið það heldur lýsa frá hæðum, þeim sem leita guðsríkis. Haldið ekki að ég sé kominn til að brjóta niður lög fræðimannanna eða faríseanna, því að dagar mínir meðal ykkar eru fáir og fjöldi orða minna takmarkaður og ég hef aðeins tíma til að uppfylla önnur lög og birta ykkur nýjan sáttmála.

Þið hafið heyrt að ekki skuli mann deyða. En ég segi, reiðstu ekki bróður þínum. Feðurnir lögðu ykkur þá skyldu á herðar að færa kálf, lamb eða dúfu í musterið til að fórna því á altarinu, til þess að Guð gæti nært sig af fitu fórnarinnar og fyrirgefið ykkur.

En ég spyr ykkur, getið þið gefið Guði það sem hann hefur alltaf átt? Ætlið þið að næra þann guð sem umlykur alla heima með örmum sínum, og ríkir í hinum þöglu djúpum? Far heldur heim til bróður þíns og sæst við hann, áður en þú ferð inn í musterið, og vertu örlátur við náunga þinn. Því í hjarta slíkra manna hefur Guð byggt musteri sem ekki verður brotið niður, og í hjörtum þeirra hefur hann reist altari sem ekki glatast. Sagt hefur verið við ykkur: Auga

fyrir auga og tönn fyrir tönn. En ég segi við ykkur: Rísið ekki upp gegn meingjörðamanninum, því að hann nærist á hinu illa og mótstaðan styrkir það. Og aðeins ljúfmennska sigrar hið illa. Sá einn er sterkur sem fyrirgefur, og sá sem beittur er órétti verður göfugur á að fyrirgefa.

Hafið ekki áhyggjur út af morgundeginum, skynjið vel þennan dag, því að hann er í sjálfu sér kraftaverk.

Látið ekki gjafir ykkar loða við gómana og lokið ekki augunum fyrir neyð manna því að allt sem þú gefur hefur Faðirinn gefið þér, og það í miklu stærri mæli.

Og gefið mönnum það sem þeir þarfnast, því að Faðirinn gefur ekki þyrstum salt eða hungruðum steina eða stálpuðu barni móðurmjólk.

Og gef ekki hundum það sem heilagt er, og kastið ekki perlum fyrir svín. Slíkar gjafir eru háð og sá sem við tekur hæðir líka gjafir ykkar og snýst gegn ykkur. Safnið ekki þeim

auði sem mölur og ryð eyða og þjófar geta stolið. Safnið þeim auði sem ekki eyðist eða verður af ykkur tekinn en vex við að aðrir skoði hann. Því að þar sem fjársjóður þinn er, þar mun hjarta þitt einnig vera.

Sagt hefur verið við ykkur að morðingi eigi að falla fyrir sverði, að krossfesta eigi þjófinn og grýta hina bersyndugu. En ég segi ykkur að afbrot morðingjans og hinnar bersyndugu er einnig ykkar synd. Og þegar líkama þeirra er refsað myrkvast sál ykkar. Sannleikurinn er að enginn glæpur er framinn af einum manni eða einni konu. Syndin er öllum sameiginleg. Og sá, sem þolir refsinguna, brýtur ef til vill hlekki í þeirri keðju sem smíðuð er um ykkar eigin ökkla og greiðir ef til vill með þjáningu sinni gjaldið fyrir skammvinna gleði ykkar".

Þannig talaði Jesús, og ég fann til löngunar til að krjúpa og tilbiðja hann. Samt gat ég mig hvergi hrært og kom ekki upp nokkru orði.

En löngu seinna lauk ég upp munni

mínum og ég sagði: „Einmitt nú á þessari stundu vil ég biðjast fyrir, en tungan hlýðir mér ekki. Kenndu mér að biðja“.

Og Jesús sagði: „Þegar þú biður, láttu þá sál þína tala“. Og hann kenndi mér að biðja þannig:

Faðir vor, þú sem ert á himnum, helgist nafn þitt, komi ríki þitt, verði vilji þinn, svo á jörðu sem á himni. Gef oss í dag vort daglegt brauð.

Fyrirgef oss vorar skuldir, svo sem vér og fyrirgefum vorum skuldunautum. Eigi leið þú oss í freistni, heldur frelsa oss frá illu.“

Það var komið kvöld, og Jesús gekk niður af fjallinu og við fylgdum honum. Og á leiðinni endurtók ég bænina sem hann kenndi okkur og ég rifjaði upp allt sem hann hafði sagt. Og mér varð ljóst, að orðin sem sögð voru á fjallinu þennan dag, hlytu síðar að hljóma um allan heim, allt til endimarka jarðarinnar.

## Jóhannes Sebedeusson

Þú hefur tekið eftir að sum okkar kalla Jesú Krist og ýmsir kalla hann Orðið, aðrir kalla hann Nazareann og enn aðrir Mannssoninn.

Ég skal reyna að skýra þetta með því innsæi sem mér er gefið.

Kristur, sem til var í árdaga, er logi Guðs í mannssálinni. Hann er lífsandinn sem klæðist holdi, eins og líkama okkar.

Hann er vilji Guðs.

Hann er hið fyrsta orð, orð sem býr með okkur, og við verðum að gefa því gaum og skilja það.

Og orð Guðs, Jesús, klæddist holdi og varð maður eins og þú og ég.

Því að við gátum ekki heyrt söng vinds

sem á sér ekkert form og ekki séð hið hærra sjálf okkar fara um í þokunni.

Oft hefur Kristur vitjað heimsins og hann hefur farið um mörg lönd. Og þeir sem mæta honum, þekkja hann ekki.

Samt stígur rödd hans aldrei niður í tóm, því að minni mannsins varðveitir það sem hugur hans hirðir ekki um.

Þetta er sá Kristur, hið dýpsta og hæsta, sem fer með manninum inn í eilífðina.

Hefur þú ekki heyrt um hann á krossgötum Indlands? Og í landinu helga? Og á söndum Egyptalands?

Og hér norður í landi ortu gömlu skáldin um Prómeþeus sem færði okkur eldinn, hann sem gerði von mannsins að veruleika og lét draum hans rætast. Og um Orfeus, hann sem með rödd sinni og tónum blés nýjum lífsanda í menn og dýr.

Og þekkir þú ekki konunginn Míþra og spámann persanna, Zaraþústra, sem sáu nýjan heim og vöktu okkur af draumi hins liðna?

Sjálf verðum við frjáls þegar við mætumst

á þúsund ára fresti í hinu ósýnilega musteri. Þá birtist hann sjálfur, og þegar hann kemur til okkar breytist þögn okkar í söng.

Heyrandi heyrum við þó ekki alltaf og sjáandi sjáum við ekki.

Jesús frá Nazaret fæddist og óx upp eins og við sjálf. Móðir hans og faðir hans voru eins og foreldrar okkar, og hann var maður.

En Kristur, Orðið sem var í upphafi, andinn sem leiðir okkur til hærra lífs, kom til Jesú og varð eitt með honum. Og andinn var hin styrka hönd Guðs, og Jesús var harpan.

Andinn var ljóðið, og Jesús mælti það fram. Og Jesús, maðurinn frá Nazaret, var líkami Krists sem gekk meðal okkar og kallaði okkur vini sína.

Á þessum dögum hlustuðu fjöll og dalir Galíleu ekki á neitt nema rödd hans. Þá var ég ungur maður. Ég varð á vegi hans og fylgdi í spor hans.

Ég fylgdi í spor hans og gekk leið hans til að heyra orð Krists af hans eigin vörum.

Nú spyrð þú, hvers vegna sum okkar kalla hann Mannssoninn.

Hann vildi sjálfur láta kalla sig þessu nafni, því að hann þekkti hungur og þorsta mannsins, og hann skildi leit mannsins að æðra eðli sínu.

Mannssonurinn var Kristur, sem vegna náðar sinnar vildi vera hjá okkur öllum.

Hann var Jesús frá Nazaret, sem vildi leiða alla bræður sína til hins blessaða, já til Orðsins sem var í upphafi hjá Guði.

Jesús frá Galíleu býr í hjarta mínu, maður og Guð, skáldið sem gerir alla að skáldum, andinn sem knýr dyra hjá okkur, og við verðum að vakna, rísa á fætur og ganga út til að mæta sannleikanum, án allra umbúða og skilyrðislaust.

# Ungur prestur í Kapernaum

Hann var aðeins galdramaður og blekkingameistari, maður sem ruglaði einfeldninga með særingum og töfrabrögðum. Og hann falsaði orð spámanna okkar og gróf undan óskeikulleika feðranna.

Hann leitaði uppi konur, bæði frá Jerúsalem og utan af landsbyggðinni af sama ákafa og könguló leitar flugna. Og hann festi þær í vef sínum.

Því konur eru reikular og heimskar og þær fylgja þeim manni sem höfðar til innibyrgðra ástríðna með hlýjum og mildum orðum. Það er þessum reikulu konum að kenna, setnum illum anda hans, að ekki er hægt að þurrka út nafn hans úr minningum manna.

Og hvers konar menn voru það sem fylgdu honum?

Það voru undirokaðir menn, menn sem létu troða sig í svaðið.

Þvílíkir menn, fullir ótta og fáfræði, hefðu aldrei risið gegn réttbornum herrum sínum. En eftir að hann gaf þeim loforð um að þeir yrðu virtir í ímynduðu konungsríki, gat hann mótað þá eins og leir í hendi sér.

Er þér ekki ljóst að í draumi sínum vill þrællinn alltaf vera húsbóndi og vesalingurinn ljón?

Galíleinn er loddari og hann er svikari, maður sem fyrirgefur öllum mönnum syndir þeirra, til þess að láta þennan tötralýð hylla sig, maður sem lætur vonlausa auðnuleysingja hlusta á raust sína og breyta eftir orðum sínum.

Hann vanvirti helgi hvíldardagsins til að fá stuðning frá utangarðsfólki. Hann talaði illa um prestana til að vekja athygli á sér í samkunduhúsinu og auka frægð sína með því að andmæla þeim.

Ég hef oft sagt að ég hataði þennan mann.

Já, ég hata hann meira en rómverja sem undiroka þjóð okkar. Og takið eftir því að þessi maður kemur frá Nazaret, þorpi sem spámenn okkar hafa formælt, þorpi villutrúarmanna. Frá þeim stað mun aldrei neitt gott koma.

# Ríkur levíti í grennd við Nazaret

Hann var góður smiður. Dyr sem hann gerði voru traustar og gluggar hans gátu opnast og hleypt svölum vindum inn í húsið.

Og hann bjó til hirslur úr sedrusviði, fágaðar og traustar, plóga og amboð sem fóru vel í hendi.

Og hann skar út ræðustóla handa samkunduhúsum okkar. Hann skar þá út úr gullnum viði mórberjatrésins. Á hliðar stólsins, en á honum liggur hin helga bók, skar hann út þanda vængi og neðst á stólnum dýrahöfuð og dúfur og stóreygða hirti.

Allt var þetta gert í stíl kaldea og grikkja. En það var eitthvað í list hans sem var hvorki frá grikkjum né kaldeum.

Það unnu margar hendur við að byggja mér hús fyrir þrjátíu árum. Ég leitaði að byggingameisturum og smiðum í öllum borgum Galíleu. Þetta voru dugandi menn sem kunnu sína list og ég var ánægður með allt sem þeir gerðu.

En komdu nú og líttu á tvennar dyr og einn glugga sem Jesús frá Nazaret smíðaði. Ekkert í húsi mínu líkist þessu.

Sérð þú ekki að þessar dyr líkjast engum dyrum öðrum? Og þessi gluggi sem snýr í austur, er hann ekki ólíkur öðrum gluggum?

Allar dyr og gluggar hússins bera einkenni síns tíma, aðeins verk hans voru óháð tímanum.

Og sérðu hvernig hann hefur lagt þessi þvertré og hvernig naglarnir eru reknir gegnum þau og binda þau sterklega saman?

Það vakti furðu mína að þessi verkamaður, sem verður var tvöfaldra launa, þáði aðeins venjuleg laun. Og enn furðulegra er það að nú er þessi verkamaður álitinn mikill spámaður í Ísrael.

Hefði ég vitað að þetta ungmenni sem

vann með sög og hefli væri spámaður, þá hefði ég beðið hann að tala fremur en vinna, og ég hefði greitt honum ríflega fyrir orð hans.

Enn vinna hjá mér margir menn, bæði í húsi mínu og á ökrum mínum. En hvernig get ég borið mann, sem lagt hefur hönd á verkfæri, saman við hönd manns, sem Guð hefur sjálfur gert að sinni?

Já, hvernig á ég að þekkja hönd Guðs?

# Fjárhirðir í Suður-Líbanon

Það var síðla sumars þegar hann og þrír menn aðrir gengu eftir veginum sem þú sérð þarna. Komið var kvöld. Hann nam staðar fyrir utan grasgarðinn.

Ég sat og lék á flautu og féð var á beit í kringum mig.

Þegar ég sá að hann nam staðar, þá stóð ég upp og gekk til hans.

Hann spurði mig: „Hvar er gröf Elía? Er hún ekki hér í grenndinni?“

Og ég svaraði honum: „Hún er undir stóru steindysinni þarna. Allir, sem fara hjá, taka sér stein í hönd og kasta að henni“.

Hann þakkaði mér og fór, og vinir hans fylgdu honum.

Þremur dögum síðar sagði mér Gamalíel, sem líka er fjárhirðir, að maðurinn, sem til

mín kom, væri spámaður í Júdeu, en ég trúði honum ekki. Samt hugsaði ég ekki um annað en þennan mann mánuðum saman.

Þegar voraði á ný fór Jesús aftur fram hjá þessum grasgarði og hann var einn.

Þennan dag lék ég ekki á flautu. Ég var hryggur yfir að hafa týnt sauði úr hjörðinni.

Ég gekk til hans og stóð frammi fyrir honum til að leita mér huggunar.

Og hann leit á mig og sagði: „Þú leikur ekki á flautu þína í dag. Hvers vegna berðu þennan hryggðarsvip?"

Og ég svaraði: „Ég hef tapað sauði úr hjörð minni. Ég hef leitað hans víða en ekki fundið. Ég veit ekki hvað gera skal".

Hann var hljóður um stund. Svo brosti hann og sagði: „Bíddu hér, ég skal finna sauð þinn".

Og hann gekk burtu og hvarf milli fjallanna.

Stundu seinna sneri hann aftur og sauðurinn minn gekk við hlið hans. Og þegar hann kom til mín, horfði skepnan á hann alveg eins og ég. Og ég fagnaði týnda sauðinum.

Og hann lagði hönd sína á herðar mér og sagði: „Frá þessum degi verður þessi sauður þér kærari en annað fé í hjörð þinni því hann var týndur en er nú fundinn“.

Og ég faðmaði sauðinn að mér og mig setti hljóðan.

Þegar ég leit upp til að þakka Jesú var hann horfinn.

# Jóhannes skírari ræðir við lærisvein sinn

Ég sit ekki þögull í þessu hræðilega svartholi meðan raust Jesú hljómar á vígvellinum. Ég vil ekki vera hlekkjaður eða lokaður inni meðan hann berst.

Menn segja mér að slöngurnar vefji sig um lendar hans og ég svara þeim: Slöngurnar vekja aðeins afl hans og hann mun merja þær undir hæl sínum.

Ég er aðeins þruman, hann er eldingin. Ég kom á undan honum, en aðeins til að boða komu hans.

Þeir komu mér að óvörum og settu mig í hlekki. Ef til vill leggja þeir líka hönd á hann. En þó ekki fyrr en hann hefur boðað kenningu sína. Og hann mun sigra þá.

Stríðsvagn hans rennur yfir þá og hófar hestanna fella þá, og hann skal verða sá sem sigrar.

Þeir munu ganga fram gegn honum með spjót og sverð en hann mun mæta þeim með mætti andans.

Blóð hans mun drjúpa á jörðina, en jafnvel þeir munu hneigja höfuð sín fyrir sárum hans og þjáningu. Og þeir verða skírðir í tárum iðrunar sinnar, þar til synd þeirra er þvegin burtu.

Hersveitir þeirra munu æða gegn borgum hans með brynbrjótum, en þær hersveitir munu allar týnast í fljótið helga.

Og borgir hans og turnar munu rísa til himins, og varðmenn hans munu bera hreinan og skínandi skjöld.

Menn segja að ég sé samherji hans og það sé ætlun okkar að láta fólkið rísa gegn ríkinu.

Ég svara, og ég vildi að ég gæti svarað með eldlegum orðum: Ef þetta lastabæli á að heita konungsríki, lát það þá líða undir lok og aldrei rísa framar. Fari það sömu leið og Sódóma og Gómorra, lát það land hverfa og slíka þjóð sem þessa falla í gleymsku.

Já, bak við þessa fangelsismúra er ég í

sannleika bandamaður Jesú frá Nazaret, og máttur hans gefur mér kraft. En jafnvel þótt ég sé leiðtogi, þá er ég ekki þess verður að leysa skóþveng hans.

Far þú til hans og segðu honum það sem ég hef sagt og biddu hann, vegna mín, um hjálp hans og blessun.

Lengi verð ég hér ekki. Þegar ég ligg hér á nóttunni finn ég milli svefns og vöku kalda og þunga fætur stíga yfir þennan líkama. Og ég hlusta og heyri regnið falla á legstað minn.

Farðu til Jesú og segðu að Jóhannes frá Kedron sé með honum í bænum sínum, meðan skuggarnir koma og fara í sál hans, og grafararnir færa sig nær, og böðullinn réttir fram hönd sína til að taka á móti laununum.

# Jósef frá Arímaþeu

Þú vilt þekkja helstu kenningar Jesú og ég skal með gleði segja þér frá þeim. En enginn getur bent á sjálft lífið í hinu helga víni eða safann sem nærir greinarnar.

Og þótt ég hafi neytt vínberjanna og bragðað á hinu nýja víni, get ég ekki sagt þér frá því.

Ég get aðeins sagt frá því sem ég veit um hann.

Meistari okkar, sem við elskum, lifði aðeins þrjár árstíðir sem spámaður: Ljóðrænt vor, dýrðlegt sumar og haust mikilla átaka. Og hver árstíð stóð yfir í þúsund ár.

Hið ljóðræna vor sitt lifði hann í Galíleu. Það var þar sem hann safnaði til sín þeim mönnum sem elskuðu hann. Og það var þar, við vatnið bláa, sem hann talaði fyrst um

Föðurinn, um frelsun okkar og um frelsið sjálft.

Við Genesaretvatn týndum við sjálfum okkar til að finna veginn til Föðurins. Og hve smátt var ekki tap okkar og ávinningurinn stór.

Þar heyrðum við söng engla sem hvöttu okkur til að hverfa úr harðbýlum heimi inn í óskalönd hjartans.

Hann talaði um akra og græn engi, um hlíðar Líbanonsfjalla, þar sem hvítar liljur uxu fjarri kaupmannalestum og ryki vegarins.

Hann talaði um villirósina sem brosir mót sólu og fyllir blæinn ilmi sínum.

Og hann átti til að segja. „Liljan og villirósin lifa aðeins einn dag, en sá dagur er eilífð lífs sem er lifað í frelsi."

Og kvöld eitt, þegar við sátum við ána, sagði hann: „Horfið á fljótið og hlustið á tóna þess. Allar stundir leitar það til hafsins. Og þó að það sé alltaf að leita, þá syngur það töfraljóð sitt allan guðslangan daginn.

Ég vildi að þið leituðuð Föðurins eins og fljótið leitar hafsins."

Síðar rann upp hið dýrðlega sumar hans, og yndisleiki júnídaga hans fyllti líf okkar. Þá talaði hann um náungann, hinn manninn, samferðamanninn, hinn ókunna gest og um æskuvini okkar.

Hann talaði um ferðamanninn sem kemur úr austri og fer til Egyptalands, um bóndann sem að kvöldi fer heim af akrinum með uxa sinn, og um hinn óboðna gest sem læðist í rökkrinu að dyrum okkar.

Og hann sagði: „Náungi þinn er hið óþekkta sjálf þitt holdi klætt. Andlit hans er í kyrrum vötnum huga þíns, ef þú horfir í spegil þess, sérðu þína eigin ásýnd.

Ef þú hlustar á þögn næturinnar, þá heyrir þú hann tala og rödd hans er rödd hjarta þíns.

Það, sem þú vilt að hann geri þér, skalt þú gera honum.

Þetta er lögmál mitt sem ég færi þér og börnum þínum, og þau munu skila því til

sinna barna og þannig áfram þar til ætt þín líður undir lok.

Þetta lögmál getur þú ekki brotið án þess að fremja afbrot gegn sjálfum þér.

Þú fellir ekki náunga þinn án þess að falla sjálfur. Og náungi þinn sigrar ekki án þess að sigur hans sé sigur þinn.

Vegur hans til fullkomnunar er vegur þinn og eyðimerkurganga hans auðnuleysi þitt.

Þú og náungi þinn eruð tvö frækorn sem sáð er í sama akur. Saman náið þið þroska, og saman svignið þið í vindum. Og hvorugur ykkar getur krafist þess að hann eigi akurinn. Því að frækorn á þroskabraut gerir ekki einu sinni kröfu um hamingju.

Í dag er ég með ykkur. Á morgun held ég í vestur. En áður en ég fer segi ég þér að náungi þinn er þitt eigið óþekkta sjálf, holdi klætt. Leita hans í vináttu til þess að þú megir þekkja sjálfan þig, því aðeins þannig getur þú orðið bróðir minn“.

Og svo kom haust hans. Haust hinna djúpu tilfinninga og miklu átaka. Hann tal-

aði við okkur um frelsið eins og á vordögum sínum í Galíleu. En nú höfðuðu orð hans til dýpsta skilnings okkar.

Hann talaði um lauf trjánna sem syngur aðeins þegar blærinn leikur í greinunum. Og um manninn sem kaleik sem engill starfsins fyllir af víni handa þyrstum vörum. „Og þessi kaleikur, hvort sem hann er tómur eða fylltur víni, á að standa fagur og hreinn á borði hins æðsta."

Og hann sagði: „Þið eruð kaleikurinn og þið eruð vínið. Drekkið bikarinn í botn og minnist mín og þorsta ykkar verður svalað".

Og á suðurgöngu okkar sagði hann. „Jerúsalem sem gnæfir stolt við himin mun brotin verða og falla niður í hinn dimma dal, og mitt í auðn hennar mun ég einn standa. Musterið mun hrynja til grunna og í súlnagöngunum munuð þið heyra ekkjur og munaðarlausa gráta. Og menn munu flýja hana, blindaðir af ótta og ekki þekkja andlit bræðra sinna.

En jafnvel þar, hvar sem tveir ykkar

mætast, verð ég á meðal ykkar, og á leið ykkar vestur verð ég með ykkur, og orð mín munu aftur vitja ykkar".

Og þegar við komum til hæða Betaníu, sagði hann: „Nú höldum við til Jerúsalem. Borgin bíður okkar. Inn um borgarhliðin mun ég halda ríðandi á asna og ég mun tala til mannfjöldans.

Margir eru þeir sem vilja setja mig í hlekki og margir vilja slökkva eld minn, en í dauða mínum munuð þið finna líf, og þið skuluð verða frjáls.

Þeir munu leita þess anda sem svífur milli hugar og hjarta eins og svalan svífur milli akursins og hreiðurs síns.

En andi minn er þegar farinn frá þeim og þeir munu ekki sigra mig.

Þeir varnarveggir sem Faðir minn hefur byggt í kringum mig, verða ekki brotnir niður. Og jörð, sem hann hefur vígt, verður ekki vanhelguð.

Þegar nýr dagur rennur mun sólin krýna höfuð mitt, og ég geng með ykkur inn í

daginn. Og sá dagur verður langur, og veröldin mun ekki sjá hann líða undir lok.

Fræðimennirnir og farísearnir segja að jörðina þyrsti í blóð mitt. Ég vildi gjarnan bjarga þessari jörð með blóði mínu. En af dropunum vex eikartré og akörn og austanvindurinn mun bera ávexti hennar til annarra landa".

Og aftur tók hann til máls og sagði: „Júdea mun eignast konung, og hún mun ganga gegn hersveitum Rómar. Ég verð ekki konungur Júdeu. Ennisdjásn Zíonar voru gerð fyrir minni höfuð. Og hringur Salómons væri ekki á réttum stað á þessum fingri.

Sjáið hönd mína. Þið sjáið að hún er ekki gerð til að halda á veldissprota eða til að bera sverð. Nei, ég leiði ekki her gegn Róm. En þið skuluð með orðum mínum vekja þá borg, og andi minn skal verða henni ný dögun.

Orð mín skulu verða ósýnilegur her með stríðshesta og vagna. Án þess að beita sverði eða spjóti mun ég sigra presta Jerúsalem og keisara Rómaborgar.

Ég mun ekki sitja í hásæti þar sem þrælar hafa setið og drottnað yfir öðrum þrælum. Ekki mun ég heldur rísa upp gegn sonum Ítalíu.

En ég mun gera byltingu á himni þeirra og verða nýr söngur í sál þeirra.

Og mín verður minnst.

Þeir munu kalla mig Jesú, frelsara sinn".

Þetta sagði hann fyrir utan borgarmúra Jerúsalem, áður en hann hélt inn í borgina.

Og öll orð hans eru enn meitluð í sál mína, eins og þau væru höggvin í stein.

# Natanael

Menn segja að Jesús frá Nazaret hafi verið auðmjúkur og blíðlyndur.

Menn segja að hann hafi verið ráðvandur og réttlátur, en þó veikbyggður maður sem oft var spottaður af hinum sterku og voldugu. Og menn segja að hann hafi aðeins verið lamb meðal ljóna þegar hann stóð fyrir framan valdsmennina.

En ég segi að Jesús hafi haft vald yfir mönnum, og hann þekkti vald sitt og sýndi það í fjöllum Galíleu og í Júdeu og borgum Fönikíu.

Er það lítilsigldur maður sem segir: „Ég er lífið og ég er vegurinn?“

Hvernig getur hógvær og lítillátur maður sagt: „Ég er í Föðurnum og Faðirinn er í mér?“

Enginn sem veit ekki um vald sitt gæti sagt: „Sá, sem ekki trúir á mig, trúir hvorki á hið stundlega líf né hið eilífa.“

Enginn, nema sá sem þekkir framtíðina, gæti sagt: „Áður en orð mín gleymast mun heimurinn hrynja og verða að ösku.“

Efaðist hann um mátt sinn þegar hann sagði við þá sem vildu grýta bersyndugu konuna og leiða hann sjálfan í gildru: „Sá yðar sem syndlaus er kasti fyrsta steininum“?

Óttaðist hann valdsmennina þegar hann rak víxlarana burtu úr forgarði musterisins þó að þeir stunduðu þar iðju sína með leyfi prestanna?

Hvað óttaðist hann þegar hann hrópaði fullum hálsi: „Mitt ríki er æðra en öll ríki jarðarinnar?“

Var ræða hans innantóm orð þegar hann endurtók hvað eftir annað: „Brjótið þetta musteri niður og ég mun byggja það aftur á þremur dögum“?

Var það huglaus maður sem ógnaði valds-

mönnunum og kallaði þá ósannindamenn, vesalinga, óhreina og siðspillta?

Er hægt að kalla mann, sem þannig talar um þá sem stjórna Júdeu, auðmjúkan og blíðlyndan?

Ég fyllist leiða og mér gremst að heyra óttaslegna menn kalla Jesú auðmjúkan og blíðlyndan til að sætta sig við eigin undirlægjuhátt. Og eins þegar ég heyri hina kúguðu segja, sér til huggunar, að hann skríði í duftinu eins og þeir.

Já, í hjarta mínu hef ég ógeð á mönnum er svo mæla. Í mínum boðskap er hann hinn voldugi veiðimaður og óendanlega máttugur andi.

## Saba frá Antíokkíu

Í dag heyrði ég Sál frá Tarsus segja gyðingum borgarinnar frá Kristi.

Nú kallar hann sig Pál og boðar hinum vantrúuðu trú.

Ég þekkti hann í æsku minni og á þeim árum sem hann ofsótti vini Nazareans. Mér er í minni ánægja hans þegar hann og félagar hans grýttu svipfagurt ungmenni sem þeir nefndu Stefán.

Þessi Páll er vissulega undarlegur maður. Sál hans er ekki sál hins frjálsa manns.

Stundum minnir hann mig á sært dýr sem leitar að skjóli til að fela sársauka sinn fyrir heiminum.

Hann talar ekki um Jesú eða endurtekur orð hans. Hann boðar Messías eins og spámenn fortíðarinnar.

Og þótt hann sé sjálfur lærður gyðingur, talar hann til samlanda sinna á grísku og gríska hans er götótt og orðaval hans fátæklegt.

En hann býr yfir leyndum mætti, og söfnuðurinn kringum hann sýnir vald hans. Og stundum sannfærir hann menn um það sem hann efast um sjálfur.

Við sem þekktum Jesú og heyrðum hann tala, álítum að hann hafi kennt mönnum að losa sig úr fjötrum og slíta sig frá fortíð sinni.

En Páll bjó til nýja hlekki fyrir óbornar kynslóðir. Hann slær á steðjann með sínum eigin hamri í nafni manns sem hann ekki þekkir.

Nazareinn vildi að við værum full af hrifningu og fögnuði yfir lífinu. Maðurinn frá Tarsus vill að við höfum jafnan í huga lög sem skráð eru í hinum gömlu bókum.

Jesús reisti við hina andlega dauðu. Og á hljóðum nóttum trúi ég. Og ég skil.

Þegar hann sat við borðið með okkur

sagði hann sögur sem vöktu hrifningu veislugesta og hann kryddaði matinn og vínið með gleði sinni.

En Páll vill helst setja reglur um brauð okkar og bikar.

Fyrirgefið mér að ég horfi í aðra átt.

## Salóme, við vinkonu sína

Hann var eins og ilmandi blæösp í sumarsól.
Hann var vatn á eyðisöndum sem glitrar í sólskini.
Hann var eins og hvítur tindur fjallsins sem teygir sig upp í heiðríkjuna.

Já, hann var allt þetta.
Og ég elskaði hann.
Og ég óttaðist nánd hans.
Og fætur mínir neituðu að bera ást mína til hans svo að ég gæti kropið niður og faðmað fætur hans.

Mig langaði til að segja við hann:
Ást mín breyttist skyndilega í afbrýðis-

semi og reiði. Og ég drap vin þinn. Getur þú fyrirgefið mér synd mína?

Og vilt þú, vegna náðar þinnar, frelsa æsku mína frá villu síns vegar, svo hún megi lifa í ljósi þínu?

Ég veit að hann hefði fyrirgefið mér dansinn sem kostaði vin hans lífið.

Ég veit það hefði verið í anda kenninga hans.

Ég veit að þær hörmungar eru ekki til sem hann gat ekki bætt.

Og sú eyðimörk er ekki til sem hann gat ekki farið yfir.

Já, einmitt eins og blæösp var hann.

Og eins og vötn á eyðimörkum.

Og eins og snær á tindum Líbanonsfjalla.

Það hefði sefað huga minn að mega kyssa klæðafald hans.

En hann var mér fjarlægur.

Og ég blygðaðist mín.

Og móðir mín hélt aftur af mér þegar löngunin til að hitta hann kom yfir mig.

Og hvert sinn sem hann gekk hjá fylltist ég óstjórnlegri löngun til að fara á eftir honum.

En móðir mín leit á hann með reiðisvip og rak mig frá glugganum inn í sal minn.

Og hún hrópaði:

„Hvað er hann annað en enn ein engisprettuætan utan af eyðimörkinni?

Hvað er hann annað en guðlastari og trúvillingur, uppreisnarseggur sem vill ræna okkur veldissprota og kórónu og láta sjakala og refi þessa fordæmda lands góla í sölum okkar og setjast í hásæti okkar? Farðu og hyldu andlit þitt í dag.

Sá dagur mun koma að höfuð hans fellur.

En ekki á þinn silfurbakka.“

Allt þetta sagði móðir mín.

En hjarta mitt vildi ekki hlýða henni.

Og ég elskaði hann í laumi.

Og svefn minn var umkringdur logum.

Nú er hann farinn.

Og eitthvað í sjálfri mér hvarf með honum.

Kannski var það æska mín sem getur ekki dvalist hér lengur eftir að guð hennar var líflátinn.

# Rakel

Oft hef ég spurt sjálfa mig hvort Jesús hafi verið maður af holdi og blóði eða ójarðnesk hugsun í vitund okkar, ellegar draumsýn úr djúpum sálarinnar.

Oft finnst mér að hann hafi verið draumur fjölmargra manna og kvenna, svefn sem er dýpri en svefn, og um leið sólris, bjartara en nokkur önnur dögun.

Og það er eins og draumurinn hafi farið að breytast í veruleika þegar við byrjuðum að rifja hann upp. Líkt og hugmyndir okkar og langanir hafi gert hann að manni eins og okkur.

En sannarlega var hann enginn draumur. Við vorum með honum í þrjú ár og horfðum á hann með opnum augum í birtu dagsins.

Við snertum hendur hans og við fylgdum

honum úr einum stað í annan. Við hlustuðum á orð hans og sáum verk hans.

Getur verið, að við höfum aðeins verið andi í leit að stærri anda, ellegar draumur í heimi draumsins?

Stærstu viðburðir virðast alltaf framandi í venjulegu lífi okkar, jafnvel þeir sem eiga rætur í okkar dýpsta eðli. En þó að þeir komi og fari skyndilega, skilja þeir eftir veruleika sem ekki breytist þótt aldir líði og kynslóðir komi og hverfi.

Jesús frá Nazaret var sjálfur slíkur viðburður. Við þekktum föður hans og móður, við þekktum bræður hans, en hann var sjálfur kraftaverk sem gerðist í Júdeu. Já, ef öll kraftaverkin sem hann gerði væru sett við fætur hans, þá næðu þau honum sjálfum aðeins í ökkla.

Og straumur tímans ber ekki burtu með sér minningar okkar um hann.

Hann var brennandi fjall í nóttinni og þó var hann mildur bjarmi handan við hæðirnar.

Hann var stormur sem geisar um himininn

og þó var hann kyrrlátur blær í morgunmistri.

Hann var fossandi elfur sem streymir frá hæðunum niður á láglendið og hrífur allt með sér á leið sinni. Og hann var klingjandi hlátur barns.

Ár hvert hafði ég beðið komu vorsins í dalinn minn, full tilhlökkunar. Ég hafði beðið eftir liljum og alparósum. Og hvert ár varð ég vonsvikin, því að ég vildi gleðjast yfir vorinu, en ég gat það ekki.

En þegar Jesús kom inn í líf mitt, var hann hið sanna vor og fyrirheitið um öll ókomin ár. Þegar hann kom fylltist hjarta mitt gleði, og eins og óútsprungin rós opnaðist blóm sálar minnar í ljósi hans.

Og allar ókomnar árstíðir geta ekki máð út dýrð hans í þessum heimi.

Nei, sannarlega var Jesús ekki nein ímyndun eða skáldleg draumsýn. Hann var maður eins og þú og ég. En aðeins gagnvart sjón, heyrn og tilfinningu. Í öllu öðru var hann ólíkur okkur.

Hann var maður gleðinnar og með fagn-

aðarerindi sínu læknaði hann öll mein. Og í dýpstu þjáningu sinni gaf hann heiminum nýja gleði.

Hann sá sýnir sem við ekki sáum, og hann heyrði raddir sem við ekki heyrðum. Hann talaði til ósýnilegs mannfjölda, og oft talaði hann gegnum okkur til ófæddra kynslóða.

Og oft var Jesús einn. Hann var hjá okkur og samt fjarlægur. Hann var á jörðinni en einnig á himnum. Og aðeins í einveru náum við til hans.

Hann elskaði okkur og bar umhyggju fyrir okkur. Hjarta hans var tær lind sem alltaf gat svalað þorsta okkar.

Það var eitthvað í fari hans sem ég skildi ekki þá: Hann gat glaðst með áheyrendum sínum. Hann gat brugðið á leik og hlegið hjartanlega, en það var eitthvað fjarlægt í augum hans og angurvær blíða í rödd hans. En ég skil þetta nú.

Oft hef ég hugsað um jörðina eins og þungaða konu sem gengur með sitt fyrsta barn. Þegar Jesús fæddist var hann fyrsta

barnið. Og þegar hann dó var sem enginn maður hefði áður dáið eins og hann.

Því virtist þér ekki jörðin standa kyrr þennan myrka föstudag og himnarnir verða sjálfum sér sundurþykkir?

Og fannst þér ekki, þegar auglit hans hvarf sjónum okkar, að það værum við sjálf sem ekki værum annað en óljós minning í þokunni?

## Kleófas í Betrúníu

Þegar Jesús talaði var sem öll veröldin hljóðnaði til að hlusta. Orð hans voru ekki fyrir okkar eyru, fremur fyrir það efni sem Guð skapaði heiminn úr.

Hann talaði til hafsins, hinnar máttugu móður sem ól okkur. Hann talaði til fjallanna, okkar eldri bræðra, og tinda sem gefa okkur fyrirheit.

Hann talaði til engla handan móðunnar miklu og til fjallsins sem við trúðum fyrir draumi okkar, áður en sá leir sem við erum gerð úr harðnaði í sólskininu.

Og orð hans blunda enn í brjósti okkar eins og hálfgleymdur ástaróður sem stundum brýst gegnum þokuna inn í huga okkar.

Einföld orð hans voru full af fögnuði, og

rödd hans var eins og svalandi regn sem fellur á sprungna jörð.

Eitt sinn lyfti hann máttugri hönd sinni mót himni, og hann sagði með hárri röddu:

„Gömlu spámennirnir hafa talað til ykkar, og eyru ykkar eru full af orðum þeirra. En ég segi ykkur að hreinsa úr eyrum ykkar það sem þið hafið heyrt".

Og þessi orð Jesú: „En ég segi ykkur" voru ekki töluð af manni af okkar kynþætti eða af okkar heimi. Það var eins og hópur engla færi hjá.

Hvað eftir annað fór hann með ritningargreinar spámannanna og lögmálsins og bætti síðan við: „En ég segi ykkur!"

Þessum voldugu orðum verður ekki lýst. Það var eins og himinháar bylgjur frá óþekktum djúpum féllu upp að hugarströnd okkar:

„En ég segi ykkur!"

Hvílíkar stjörnur kviknuðu ekki í myrkrum sálarinnar, og hvílík eftirvænting í svefnlausum sálum sem biðu dögunar.

Til að geta sagt frá orðum Jesú verða menn að hafa heyrt þau eða bergmál þeirra.

Ég hef hvorki heyrt orð hans né bergmál þeirra.

Ég bið þig fyrirgefningar á að ég hef byrjað á frásögn sem ég get ekki lokið við. Lokaorðin eru ekki enn á mínum vörum. Þau eru enn aðeins ástaróður, skrifaður í vindinn.

# Naaman frá landi Gadarena

Lærisveinar hans hafa farið víða. Hann gaf þeim þjáningu í arf, áður en hann var sjálfur líflátinn. Þeir eru eltir uppi eins og hirtir og refir og örvamælir veiðimannsins er ennþá fullur af örvum.

En þegar þeir nást og eru líflátnir, þá eru þeir glaðir og andlit þeirra ljóma eins og brúðgumi á heiðursdegi sínum. Því að hann gaf þeim líka gleðina í arf.

Ég átti vin fyrir norðan og nafn hans var Stefán. Hann flutti þann boðskap að Jesús væri sonur Guðs, og fyrir það var hann leiddur inn á torgið og grýttur í hel.

Þegar Stefán féll til jarðar, teygði hann út arma sína líkt og hann vildi deyja eins og meistari hans dó. Arinar hans voru eins og

vængir, tilbúnir að hefja sig til flugs. Þegar síðasti ljósgeislinn slokknaði í augum hans, sá ég sjálfur með mínum eigin augum bros færast yfir varir hans. Þetta bros var eins og hnjúkaþeyr sem í lok vetrar gefur fyrirheit um að vor sé í nánd.

Hvernig á ég að lýsa þessu?

Það var eins og Stefán vildi segja:

„Þó að ég ætti að fara inn í annan heim og aðrir menn færðu mig þar inn á nýtt markaðstorg til að grýta mig öðru sinni, héldi ég samt áfram að boða Krist og þann sannleika sem er í honum og nú í mér."

Ég tók eftir manni sem stóð nálægt honum og horfði á hann þegar hann var grýttur.

Nafn mannsins var Sál frá Tarsus og það var hann sem hafði selt hann í hendur prestanna og rómverjanna til að lífláta hann.

Sál var smávaxinn maður og lítill fyrir mann að sjá, og mér geðjaðist ekki að honum.

Nú er mér sagt að hann boði mönnum trú á Jesú. Því er erfitt að trúa.

Það er eins og jafnvel dauðinn geti ekki heft för Jesú inn í herbúðir andstæðinga hans. Hann gerir þá, sem hafa barist gegn honum, að sínum eigin liðsmönnum.

Samt get ég ekki sagt að mér geðjist að þessum manni frá Tarsus. Mér er þó sagt, að eftir dauða Stefáns hafi hann sjálfur verið sigraður á leið sinni til Damaskus. Mín skoðun er sú að höfuð hans sé of stórt til að hjarta hans geti orðið sannur lærisveinn. Ég hef ef til vill rangt fyrir mér. Það gerist svo oft að málin eru öðruvísi en menn ætla.

# Tómas

Afi minn, sem var lögmaður, sagði einu sinni: „Við skulum virða sannleikann, en aðeins þann sannleika sem hægt er að þreifa á“.

Þegar Jesús valdi mig, hlýddi ég kalli hans vegna þess að orð hans voru máttugri en vilji minn. Samt gleymdi ég ekki heilræði afa míns.

Þegar hann talaði og aðrir svignuðu eins og greinar í stormi, hlustaði ég á hann á gagnrýninn hátt. Samt elskaði ég hann.

Nú eru liðin þrjú ár frá því að hann fór frá okkur, þessum litla og tvístraða hópi sem á að flytja orð hans öllum þjóðum.

Þá kallaði hann mig hinn vantrúaða Tómas. Skuggi afa míns hvíldi yfir mér og

aðeins mælanleg staðreynd var mér sannleikur.

Ég þurfti að leggja hönd mína á mitt eigið sár áður en ég legði trúnað á sársaukann.

Já, en maður sem elskar með hjarta sínu en efast í sál sinni er ekki annað en galeiðuþræll sem sefur við ár sína og lætur sig dreyma um frelsi þar til svipa þrælahaldarans vekur hann.

Ég var sjálfur slíkur þræll, og mig dreymdi um frelsi. En ég var haldinn svefni afa míns. Líkami minn þurfti svipuhögg samtíðarinnar til að ég vaknaði.

Jafnvel í nærveru Nazareans skildi ég ekki að hendur mínar voru hlekkjaðar við árina.

Efinn er þjáning og hann er of einmana til að vita að trúin er systir hans.

Efinn er vansæll og villuráfandi útburður, og jafnvel þó að móðirin fyndi hann og vildi faðma hann að sér, viki hann samt undan af varfærni og ótta.

Efinn öðlast enga þekkingu á sannleikanum fyrr en sár hans gróa.

Ég var í vafa um Jesú þar til hann birtist

mér og lét mig með eigin hendi þreifa á sárum sínum.

Þá trúði ég loks og eftir það hef ég losnað úr fjötrum fortíðar minnar og verið laus undan fortíð feðra minna.

Í mér hafa hinir dauðu grafið sína dauðu. Og hinir lifandi munu lifa fyrir hinn smurða konung, einmitt fyrir hann sem var Mannssonurinn.

Í gær fékk ég boð um að halda af stað út í heiminn til að nefna nafn hans meðal persa og hindúa.

Ég mun fara. Og frá þessum degi til míns hinsta dags mun ég bæði við sólris og sólarlag sjá hann rísa í dýrð sinni til himins. Og ég mun heyra hann tala.

# Rökfræðingurinn Elmadam

Þú hvattir mig til að tala um Nazareann Jesú, og ég hef frá mörgu að segja en tíminn er ekki kominn. Þó er allt, sem ég nú segi um hann, sannleikur. Eins og við vitum þá eru öll orð fánýt nema þau afhjúpi sannleikann.

Settu þér fyrir sjónir hirðulausan mann sem brýtur alla góða siði, betlara, mann sem ekki virðir eignarrétt manna, drykkjumann sem skemmtir sér eingöngu með ræflum og utangarðsfólki.

Hann var ekki einn af landsins stoltu sonum eða borgari sem verndar ríkið. Þess vegna fyrirleit hann bæði land og þjóð.

Hann vildi vera jafn frjáls og ábyrgðarlaus og fuglar himinsins og þess vegna féll hann til jarðar fyrir ör veiðimannsins. Enginn sem

umbyltir turnum gærdagsins kemst undan fallandi steinum.

Það opnar enginn flóðgáttir feðranna án þess að drukkna. Þannig er lögmálið. Og vegna þess að þessi maður frá Nazaret braut lögin, var bæði honum og fávísu fylgdarliði hans útrýmt.

Við borgarmúrinn vex vínviður einn sem ber engan ávöxt. Hann leggst upp að múrnum og hengir sig á steinana. Hvað héldu hin trén ef þessi vínviður segði við sjálfan sig: „Með valdi mínu og styrk mínum mun ég brjóta niður þennan múr". Auðvitað hlytu öll önnur tré að hlæja að slíkri heimsku.

Og ekki get ég annað en hlegið að þessum manni og villuráfandi lærisveinum hans.

# Kona nefnd María

Hann bar alltaf höfuðið hátt, og það var guðlegur neisti í augum hans.

Hugur hans var fullur af samúð með þeim sem þjáðust og þeim sem voru einmana.

Þegar hann brosti, var bros hans eins og löngun manns sem leitar hins ókomna. Það var eins og stjörnuduft sem fellur á hvarma barns, og það var svöngum fæða.

Hann hryggðist yfir veröldinni. En jafnvel sú hryggð laðaði bros fram á varirnar. Það minnti á ljóma haustlitanna í skógarkjarri og stundum fannst mér það eins og mánasindur á vatninu.

Hann brosti eins og varir hans vildu syngja fagnaðaróð.

Þó var eitthvað sem íþyngdi honum. Hann gat hafið sig til flugs, en það var eins og hann vildi ekki hefja sig yfir meðbræður sína.

# Rúmanús, grískt skáld

Hann var skáld. Hann sá fyrir okkur og heyrði fyrir okkur og ósögð orð okkar heyrðum við af hans vörum. Og hönd hans gat snert það sem við aldrei fundum.

Til allra átta flugu úr hjarta hans ótal syngjandi fuglar, og á leið hans mót himni töfðu lítil blóm í fjallshlíðinni för hans.

Oft hef ég séð hann beygja sig niður til að strjúka lófum sínum um grasið. Og í anda hef ég heyrt hann segja: „Litlu grænu lífgrös, í mínu ríki eruð þið jafnmikil og eikurnar í Basan og sedrusviðurinn í Líbanon“.

Hann elskaði allt sem var fagurt, andlit saklausra barna og reykelsi og myrru suðursins.

Hann gladdist ef einhver færði honum granatepli af góðum hug eða rétti honum

bikar af víni til að sýna honum vináttu. Það skipti engu hvort sá sem gaf honum var ókunnur maður í gistihúsinu eða auðugur gestgjafi.

Hann hreifst af fegurð möndlutrés í blóma og ég sá hann fara um það höndum og byrgja andlit sitt í blómum þess, eins og hann vildi með kærleika sínum taka öll tré þessa heims í faðm sinn.

Hann þekkti djúpin og himnana. Og hann talaði um perlur, fylltar yfirskilvitlegu ljósi, og um stjörnur sem eru handan þeirrar nætur sem við þekkjum.

Hann þekkti fjöll eins og örninn þekkir þau og dalina eins og lækir og árstraumar þekkja þá. Og það var öræfakyrrð í þögn hans og orð hans ilmuðu eins og aldingarður.

Í sannleika sagt, hann var skáld og hjarta hans bjó í höll handan allra fjalla. Og þó að söngvar hans væru ætlaðir okkar eyrum, voru þeir einnig ætlaðir öðrum eyrum og mönnum í landi þar sem æskan er eilíf og vorið endalaust.

Eitt sinn hélt ég að ég væri sjálfur skáld en þegar ég stóð frammi fyrir honum í Betaníu skildi ég hvað það er að halda á hljóðfæri með aðeins einum streng fyrir framan mann sem hefur öll hljóðfæri á valdi sínu. Því að í rödd hans var hlátur þrumunnar og tár regnsins og glaður dans greina sem svigna í vindum.

Frá þeirri stundu sem ég skildi að lýra mín á aðeins einn streng, að rödd mín getur ekki ofið saman minningu hins liðna og von hins ókomna, frá þeirri stund lagði ég frá mér lýru mína og hef verið hljóður. Héðan í frá mun ég hlusta eftir rödd hans í rökkri kvöldsins og í bjarma morgunsins. Og ég mun hlýða á skáld allra skálda.

# Leví, einn af lærisveinunum

Eitt sinn gekk hann fram hjá húsi mínu síðla dags og sál mín vaknaði af svefni.

Og hann talaði til mín og sagði: „Kom þú, Leví, og fylgdu mér“.

Og ég fylgdi honum.

Og næsta dag bað ég hann að ganga inn í hús mitt og vera gestur minn, og hann og vinir hans komu inn í hús mitt og blessuðu mig og konu mína og börn mín.

Og hjá mér voru aðrir gestir. Það voru prestar og lærðir menn og í hjarta sínu voru þeir á móti honum.

Og þar sem við sátum kringum borðið, vék einn prestanna sér að Jesú og spurði: „Er það satt að þú og þínir lærisveinar brjóti lögin og kyndi eld þó að það sé hvíldardagur?“

Og Jesús svaraði: „Auðvitað kyndum við eld þó að það sé hvíldardagur. Við viljum upplýsa hvíldardaginn og við viljum að eldur okkar brenni kalkvisti allra daga“.

Og annar sagði: „Það hefur borist okkur til eyrna að í gistihúsinu drekkir þú vín með hinum óhreinu“.

Og Jesús svaraði: „Já, einnig þá viljum við gleðja. Til hvers annars komum við en deila brauði og víni með hinum ókrýndu og berfættu okkar á meðal?

Fáir, já allt of fáir, eru þeir ófleygu sem bjóða vindinum byrginn. Og margir eru hinir vængjuðu og fleygu sem enn eru í hreiðri sínu.

Og við viljum fæða alla ungana, bæði þá sem eru bráðþroska og eins þá sem hægar fara.“

Og enn sagði einn prestanna: „Hef ég ekki einhvers staðar heyrt að þú viljir verja bersyndugar konur í Jerúsalem?“

Það var þá sem ég sá hamrabelti Líbanonsfjalla birtast í svip hans og hann sagði:

„Það er satt.

Á degi dómsins munu þessar konur standa fyrir framan hásæti Föður míns og tár þeirra munu þvo þær hreinar. En þú munt standa þar í hlekkjum þinna eigin fordóma.

Babýlon var ekki lögð í eyði vegna syndugra kvenna. Babýlon varð að ösku til þess að augu hræsnaranna litu ekki framar nýjan dag".

Og hinir prestarnir hefðu einnig lagt fyrir hann slíkar spurningar en ég gaf þeim til kynna að þeir skyldu þegja svo að þeir yrðu sér ekki frekar til skammar í mínum húsum.

Prestarnir yfirgáfu hús mitt um miðnætti og þar fóru hljóðir menn.

Þá lokaði ég augunum og ég sá sýnir. Sjö konur í hvítum klæðum stóðu kringum Jesú. Þær voru með krosslagða arma og beygð höfuð. Og ég starði djúpt inn í þoku draums míns og sá andlit einnar af þessum konum. Það var geislandi bjart í myrkri mínu.

Þetta var andlit bersyndugrar konu frá Jerúsalem.

Ég opnaði augun og horfði á hann og hann brosti til mín og til hinna sem ekki voru enn farnir.

Og ég lokaði aftur augunum og ég sá ljós og í því voru sjö menn í hvítum klæðum sem stóðu kringum hann. Og ég þekkti andlit eins þessara manna.

Það var andlit þjófsins sem krossfestur var honum til hægri handar.

Seinna yfirgaf Jesús og þeir sem fylgdu honum hús mitt og héldu leiðar sinnar.

## Ekkja í Galíleu

Ég átti son sem var mitt fyrsta og eina barn. Hann erjaði jörðina og undi glaður við sitt þar til hann hlustaði á mann sem þeir kölluðu Jesú tala til mannfjöldans.

Þá varð sonur minn skyndilega annar maður, líkt og hann hefði fyllst af framandi og friðlausum anda. Hann yfirgaf allar eigur sínar. Og hann yfirgaf mig. Hann hætti að erja landið og varð flækingur.

Þessi Jesús frá Nazaret var vondur maður, því að enginn góður maður aðskilur móður og son.

Það síðasta sem barn mitt sagði við mig var: „Ég fer norður með einum lærisveina hans. Líf mitt er helgað Nazareanum. Þú hefur alið mig og fyrir það ber mér að þakka

þér. En ég verð að fara. Ég skil eftir handa þér góða jörð og silfur okkar og gull. Ég fer aðeins með staf og þessi einu föt“.

Og nú hafa rómverjarnir og prestarnir sett Jesú í fangelsi og krossfest hann; og þeir gerðu rétt.

Maður sem aðskilur móður og son getur ekki óttast Guð.

Maðurinn, sem sendir börn okkar til borga heiðingjanna, getur ekki verið vinur okkar.

Ég veit að sonur minn snýr ekki aftur til mín. Ég sá það í augum hans. Og þess vegna legg ég fæð á Jesú frá Nazaret, sem á sök á því að ég er hér alein á niðurníddri jörð og í garði sem fyllist af illgresi.

Og mér er illa við alla sem lofsyngja hann.

Fyrir fáum dögum heyrði ég að Jesús á að hafa sagt: „Faðir minn og móðir mín og bróðir minn er sérhver sá sem heyrir orð mitt og fylgir mér“.

En hvers vegna ættu synir að yfirgefa mæður sínar til að fylgja í fótspor hans?

Og hvers vegna ættu þeir að hafna

tryggum uppruna sínum fyrir óvissa framtíð? Hvers vegna hafna þeir hlýjum móðurfaðmi fyrir kalt og hrjóstrugt land lengst í norðri?

Já, mér er illa við Nazareann og verður það alla mína daga, því að hann tók frumburð minn frá mér, minn eina son.

# Júdas, frændi Jesú

Það var nótt í ágústmánuði og við dvöldumst hjá meistaranum á auðri sléttu ekki langt frá vatninu. Gamalt fólk kallaði staðinn Hausaskeljastað.

Jesús lá í grasinu og horfði á stjörnurnar.

Skyndilega komu tveir menn hlaupandi til okkar. Þeir komu varla upp orði fyrir mæði og það var angistarsvipur á andliti þeirra og þeir köstuðu sér niður við fætur Jesú.

Jesús reis upp og sagði: „Hvaðan komið þið?“

Og annar maðurinn svaraði: „Frá Makerus“.

Jesús varð áhyggjufullur og sagði: „Það er Jóhannes?“

Maðurinn svaraði: „Í dag var hann tekinn

af lífi. Hann var hálshöggvinn í fangelsisklefa sínum“.

Þegar Jesús heyrði þetta gekk hann afsíðis til að vera einn en eftir nokkra stund kom hann til okkar aftur.

Og hann sagði: „Konungurinn hefur dregið á langinn aftöku spámannsins. Hann hefur lengi dregið að láta undan vilja þegna sinna. Konungar til forna voru ekki svona seinir að senda höfuð spámanns til hausaveiðaranna.

Ég hryggist ekki yfir Jóhannesi en miklu fremur yfir Heródesi sem lét sverðið falla. Þessi vesalings kóngur er eins og bundið dýr í búri.

Ég vorkenni þessum smákóngum sem villast í sínu eigin myrkri og hrasa þar og falla. Í fúatjörnum finna menn aðeins dauða fiska.

Ég hata ekki konunga. Látum þá ríkja yfir fólki, en aðeins þá sem hafa betri skilning en fólkið.“

Og meistarinn horfði á þessi tvö sorgmæddu andlit og síðan á okkur, og hann tók aftur til máls og sagði: „Jóhannes hefur

borið sár frá fæðingu og orð hans streymdu frá æð sem blæddi úr. Hann var frelsi sem enn hafði ekki leyst sína eigin fjötra. Umburðarlyndi hans náði aðeins til hinna heiðvirðu og réttlátu.

Hann var í sannleika rödd sem hrópaði í landi hinna heyrnarlausu. Og ég elskaði hann í kvöl hans og einsemd.

Og ég elskaði stolt hans sem vildi heldur leggja höfuð sitt undir sverðið en beygja það í duftið.

Sannlega segi ég ykkur, Jóhannes sonur Sakaríasar var hinn síðasti sinnar tegundar. Og eins og forfeður hans var hann líflátinn milli musterisdyranna og altarisins".

Og aftur gekk Jesús frá okkur.

Þegar hann kom til okkar aftur sagði hann: „Þannig hefur þetta alltaf verið, að þeir sem ráða aðeins eina stund vilja lífláta þá sem ríkja heilt ár. Og alltaf vilja þeir réttarhöld og dæma mann sekan, jafnvel áður en hann fæðist, og ákveða aftökuna áður en glæpurinn er framinn.

Sonur Sakaríasar mun búa með mér í ríki mínu og dagur hans mun verða langur“.

Því næst sneri hann sér til lærisveinsins Jóhannesar og sagði: „Hver athöfn fæðist aftur. Kannski verð ég næstur. Farið aftur til vina vinar míns og segið þeim að ég verði hjá þeim“.

Og mennirnir tveir fóru burt og það var léttara yfir þeim.

Þá lagði Jesús sig aftur í grasið og teygði út arma sína. Og aftur horfði hann til stjarnanna.

Það var áliðið. Ég lá nálægt honum og ég vildi gjarnan hvílast, en ósýnileg hönd barði að dyrum svefnsins svo að ég lá vakandi þar til í dögun að Jesús kallaði á mig.

Og við héldum áfram för okkar.

# Maðurinn úr eyðimörkinni

Ég var gestur í Jerúsalem. Ég hafði komið til hinnar helgu borgar til að sjá musterið mikla og færa fórn á altarinu vegna þess að kona mín hafði gefið ætt minni tvo syni.

Og eftir að ég hafði borið fram fórnina, stóð ég í súlnagöngum musterisins og horfði niður á víxlarana og þá sem seldu dúfur til fórnfæringar, og ég hlustaði á hávært skvaldrið í forgarði musterisins.

Og þar sem ég stóð þarna birtist skyndilega maður meðal víxlaranna og þeirra sem seldu dúfur.

Hann var tignarlegur maður og hann fór hratt. Hann hafði í hendi ól úr geitarskinni. Og hann velti um borðum víxlaranna og sló fuglasalana með ólinni.

Og ég heyrði hann kalla hárri röddu:

„Látið þessa fugla frjálsa svo að þeir geti farið heim í hreiður sín.“

Karlmenn og konur sem sáu svip hans hrukku undan honum og hann fór milli þeirra eins og hvirfilvindur yfir sandöldur eyðimerkurinnar.

Allt þetta gerðist snögglega og á svipstundu höfðu allir víxlararnir flúið garðinn. Maðurinn stóð þarna aleinn og skammt frá honum fylgjendur hans.

Þegar ég leit við sá ég annan mann hjá mér í súlnagöngum musterisins. Og ég gekk til hans og spurði: „Hver er þessi maður sem stendur þarna einn, líkt og hann sjálfur væri annað musteri?“ Og hann svaraði mér: „Þetta er Jesús frá Nazaret, spámaður sem nýlega er fram kominn í Galíleu, maður sem hér í Jerúsalem er hataður af öllum“.

Og ég sagði: „Í hjarta mínu gladdist ég yfir að sjá hann nota pískinn, og það er sjálfsagt vegna þess að ég er einfeldningur að ég beygi kné mín fyrir þessum manni“.

Og Jesús sneri við til að fara til fylgdarliðsins sem beið hans. En áður en hann

komst til þeirra, flugu þrjár musterisdúfur til hans og ein settist á vinstri öxl hans en hinar settust við fætur hans. Og hann lét vel að þeim. Síðan hélt hann áfram á sinn sérstæða hátt, öruggum skrefum að settu marki.

Segið mér, hvað gaf honum mátt til að ráðast á og stökkva á flótta hundruðum karlmanna og kvenna, án þess að nokkur hreyfði hönd gegn honum? Mér hafði verið sagt að allir hötuðu hann og samt gekk hann einn gegn þeim þennan dag. Hafði hann dregið úr þeim eiturtönn hatursins á leið sinni um forgarð musterisins?

## Pétur

Að kvöldi dags fór Jesús með okkur inn í þorpið Betsaída. Við vorum allir þreyttir og óhreinir af göngu í ryki vegarins.

Og við komum að stóru húsi í miðjum aldingarði og eigandi þess stóð við hliðið.

Jesús sagði við hann: „Þessir menn eru þreyttir og þeir eru fótsárir. Leyfðu þeim að sofa í húsi þínu. Nóttin er köld og þeir þarfnast hlýju og hvíldar“.

Ríki maðurinn svaraði: „Þeir fá ekki að gista í mínu húsi“.

Jesús sagði: „Leyfðu þeim þá að sofa í garði þínum“.

En maðurinn svaraði: „Nei, ég leyfi þeim ekki að sofa í mínum garði“.

Jesús sneri sér þá að honum og sagði: „Þetta verður þitt hlutskipti, og þetta verður

þín framtíð: Þér munu allar dyr verða lokaðar og þér verður ekki einu sinni leyft að sofa í garði undir beru lofti.

En fari svo að fætur þínir þoli harðræði vegarins og þú fylgir mér, þá gæti verið að þú fyndir svaladrykk og sæng og jafnvel bæði brauð og vín. En ef þú skyldir ekkert af þessu finna, minnstu þess þá að þú hefur aðeins farið um einn af mínum eyðisöndum.

Komið, við skulum halda áfram".

Ríki maðurinn varð forviða og svipur hans breyttist, hann muldraði eitthvað sem ég ekki skildi. Og hann sneri frá okkur og gekk inn í garð sinn.

Og við fylgdum Jesú.

# Melakí, stjörnuspámaður frá Babýlon

Þú spyrð mig um kraftaverk Jesú.

Á milljón ára fresti verða sól og tungl og allar reikistjörnurnar í beinni línu og þinga saman um stund.

Síðan hverfur hver stjarna aftur hljóðlega á sína braut og milljón ár líða þar til þær hittast aftur.

Utan þessara stóru stunda gerast engin kraftaverk. Þó þekkjum við ekki öll straumhvörf, þú og ég. Og gætu ekki slík tímamót birst sem einn einstaklingur?

Í Jesú sameinuðust eðlisþættir líkama okkar og sálar lögmálinu. Allt sem hvorki átti stund né stað áður en hann kom, varð að veruleika í honum.

Menn segja að hann gefi blindum sýn og láti lamaða menn ganga og reki út úr mönnum illa anda.

Kannski er blindni aðeins myrk hugsun sem eldlegur hugur getur sigrað. Kannski er visin hönd aðeins athafnaleysi sem annar máttur getur læknað. Og kannski er hægt að reka út illa anda, þessa friðlausu eðlisþætti í lífi okkar, með englum rósemdar og friðar.

Menn segja að hann hafi vakið menn upp frá dauðum. Ef þú getur sagt mér hvað dauði er, þá skal ég segja þér hvað líf er.

Á jörð einni gekk ég hjá akarni sem lá þar hreyfingarlaust og virtist lítils virði. En næsta vor sá ég þetta akarn, verðandi eikartré, skjóta rótum og vaxa mót sólu.

Þetta er auðvitað kraftaverk og þó gerast slík kraftaverk milljón sinnum hvert drungalegt haust og hvert gróandi vor.

Hvers vegna skyldi ekki eitthvað þessu líkt gerast hið innra í manninum?

Hvar ættum við að finna hin miklu tímamót, ef ekki í orðum og í höndum hins smurða manns?

Fyrst Guð hefur kennt jörðinni þá list að vekja fræ sem virðist líflaust, hvers vegna skyldi hann þá ekki geta gefið einum manni

lífsanda sem vekur hina sem virðast dauðir?

Ég hef talað um kraftaverk, sem mér virðast smá í samanburði við stærra kraftaverk, manninn sjálfan, vegfarandann, manninn sem breytti blýi mínu í gull, manninn sem kenndi mér að elska þá sem hata mig, manninn sem veitti mér öryggi og gaf mér væran svefn og fagra drauma.

Þetta er kraftaverk lífs míns.

Sál mín var blind, sál mín var lömuð. Ég var haldinn friðlausum öndum, og ég var dauður. En nú er sjón mín skýr og ég geng uppréttur. Ég hef fundið frið og tilvera mín er mér sífellt undrunarefni.

Og ég er ekki einn af lærisveinum hans. Ég er aðeins gamall stjörnuspámaður sem virðir fyrir sér hin miklu tímamót, og ég ígrunda lögmálið og kraftaverkið.

Ég er á förum inn í kvöldhúmið en þegar ég leita nýrrar dögunar finn ég hana í æsku þessa manns.

Alltaf mun ellin leita æskunnar. Í mér leita gömul fræði að nýrri sýn.

## Heimspekingur

Meðan hann var hjá okkur, skoðaði hann okkur og heim okkar með undrun, því augu hans þurftu ekki að rýna gegnum mistur erfðakenninga. Hann sá allt í skýru ljósi æsku sinnar.

Þó að hann þekkti djúp fegurðarinnar, þá kom friður þeirra og tign honum alltaf á óvart. Hann stóð frammi fyrir lífsundrinu eins og maður sem sér jörðina í fyrsta sinni.

Við sem erum svefngenglar, horfum á alla hluti um hábjartan dag og sjáum ekki neitt. Við leggjum við hlustir en heyrum ekki. Við teygjum út hendur okkar en vitum ekki hvað við snertum. Og þó brennt sé besta reykelsi Arabíu, förum við hjá og skynjum ekki ilminn.

Við sjáum ekki bóndann sem að kvöldi hverfur heim af akri sínum. Við heyrum

ekki í flautu smalans sem fer með fé sitt í hagann. Við höfum enga tilfinningu fyrir sólarlaginu. Og vit okkar eru ónæm fyrir angan rósa.

Nei, við berum ekki virðingu fyrir konungi sem á sér ekkert land. Við heyrum ekki hljóma af strengjum sem engin mannshönd snertir. Við lítum ekki á barn að leik í olífulundi eins og það væri ungt olífutré. Og öll orð verða að koma af vörum manna, annars álítum við þá heyrnarlausa og mállausa.

Í sannleika sagt þá horfum við en sjáum ekki og hlustum en heyrum ekki. Við borðum og drekkum en kunnum ekki að njóta. Og í þessu er fólginn munurinn á Jesú frá Nazaret og okkur.

Öll vit hans voru síung og heimurinn var honum alltaf nýr heimur.

Í hjali kornabarns heyrði hann hróp alls mannkyns en í okkar eyrum var það aðeins hjal óvita.

Í rót blómsins sá hann eilífðarþrá og löngun til að finna guð sinn en í okkar augum var hún aðeins rót.

# Úría, gamall maður í Nazaret

Hann var gestur meðal okkar og yfir lífi hans liggur myrk hula.

Hann gekk ekki á vegum okkar Guðs, en fylgdi vondu og ærulausu fólki að málum.

Í bernsku gerði hann uppreisn og reis upp gegn okkar góða eðli.

Æska hans logaði eins og þurrt gras sem brennur út í nóttina.

Fullorðinn sagði hann okkur öllum stríð á hendur.

Slíkir menn eru dreggjar mannlegs samfélags og fæðast í vanhelgu illviðri. Og í illviðrinu lifa þeir einn dag og hverfa því næst að eilífu.

Manst þú ekki eftir honum: Ímyndunarveikum dreng sem vildi rökræða við lærðustu öldunga okkar og hló að vísdómi þeirra?

Og manstu ekki eftir honum í æsku þegar hann stundaði smíðar? Í tómstundum sínum vildi hann ekki vera með sonum okkar og dætrum. Hann vildi fara einförum.

Þegar honum var heilsað, tók hann ekki undir kveðju, eins og hann þættist yfir okkur hafinn.

Sjálfur mætti ég honum eitt sinn á akrinum og heilsaði, og hann brosti aðeins og ég sá í brosi hans háð og hroka.

Stuttu síðar fór dóttir mín með nokkrum vinkonum sínum í víngarðinn til að lesa vínþrúgur. Einnig hún talaði til hans en hann svaraði henni ekki.

Hann talaði aðeins til alls hópsins og lét sem dóttir mín væri ekki til.

Þegar hann yfirgaf fjölskyldu sína til að flakka um landið, varð hann ekki annað en lýðskrumari. Rödd hans var eins og kló í holdi okkar og enn svíður undan orðum hans.

Hann talaði illa um okkur og um feður okkar og forfeður. Og tunga hans skaut eiturör í brjóst okkar.

Þannig var Jesús.

Hefði hann verið sonur minn, þá hefði ég sent hann í rómversku hersveitirnar í Arabíu og beðið herforingjann að senda hann í fremstu víglínu, svo að skyttur óvinanna mættu fella hann og frelsa mig undan ósvífni hans.

En ég á engan son. Og fyrir það ætti ég ef til vill að vera þakklátur. Kannski hefði hann líka orðið fjandmaður sinnar eigin ættar, látið mig þola smán og auðmýkingu og atað auri mitt hvíta skegg.

# Skáldið Nikódemus, yngsti maðurinn í öldungaráðinu

Margir eru dárarnir sem segja að Jesús hafi verið sjálfum sér sundurþykkur og komist í mótsögn við sjálfan sig. Þeir segja að hann hafi ekki skilið sínar eigin hugsanir og vegna þessarar vankunnáttu hafi hann tapað áttum.

En auðvitað eru þær uglur margar sem ekki þekkja annan söng en sitt eigið væl.

Auðvitað þekkjum við, þú og ég, þennan orðhengilshátt lærðra manna sem bera höfuð sín á torg og selja þau þeim sem fyrst býður. Þessir menn bera ekki virðingu fyrir neinu, nema þá helst mönnum sem flækja málin ennþá meira en þeir sjálfir.

Við þekkjum dvergana sem hæðast að stærri mönnum. Við vitum hvað ýlustráið segir um eikartréð og sedrusviðinn.

Ég vorkenni þeim sem aldrei hefja sig til neinna hæða.

Ég vorkenni visnuðu sefinu sem leggur fæð á álmtréð fyrir að standa af sér allar árstíðir.

En meðaumkun, jafnvel allra engla, færir þeim ekkert ljós.

Ég þekki fuglahræðuna. Tötrar hennar blakta á kornakrinum en sjálf veit hún ekkert um kornið og syngjandi blæinn.

Ég þekki vænglausu kóngulóna sem spinnur vef til að fanga alla sem eru fleygir.

Ég þekki trúðana; hornablásara og trumbuslagara, sem í æpandi hávaða sínum heyra hvorki í lævirkjanum né austanblænum í skóginum.

Ég þekki þann sem leitar á móti öllum straumum en finnur aldrei uppsprettu þeirra. Og þann sem flýtur með öllum straumum en þorir ekki að leggja út á hafið.

Ég þekki þann sem býður fram latar hendur til að byggja musteri. Og þegar gagnslitlar hendur hans fá á sig skrámur, þá

segir hann í hjarta sínu: „Það er best að eyðileggja allt sem ég hef byggt“.

Ég þekki þá alla. Það eru þessir menn sem mæla gegn Jesú sem sagði eitt sinn: „Frið minn gef ég ykkur“, og sagði öðru sinni: „Ég flyt ykkur sverð“.

Þeir skilja ekki að raunverulega sagði hann: „Ég flyt þeim frið, sem friðinn elska, en ég legg sverð milli þeirra sem vilja frið og þeirra sem vilja sverð“.

Þeir furða sig á að hann sagði: „Mitt ríki er ekki af þessum heimi“, og einnig – „Gjaldið keisaranum það sem keisarans er“. – Þeir vita ekki, að til þess að menn séu raunverulega frjálsir til að ganga inn í ríki andans, mega þeir ekki standa í stríði við varðmenn veraldlegra gæða. Það er við hæfi að menn borgi með gleði það sem þeim ber fyrir frelsið til að ganga inn í borg Guðs.

Og þetta eru mennirnir sem segja: „Hann boðaði mildi og vináttu og hlýðni við foreldra, og samt hlýddi hann hvorki móður sinni né bræðrum þegar þau fóru til hans á götum Jerúsalem.“

Þeir vita ekki að móðir hans og bræður vildu, vegna umhyggju sinnar og áhyggju, fá hann til að snúa aftur til hefilbekksins, og það þegar hann var að því kominn að opna augu alls heimsins fyrir nýjum degi.

Fjölskylda hans vildi fá hann til að lifa í skugga dauðans, en hann gekk á hólm við dauðann til þess að við mættum lifa.

Ég þekki allar þessar moldvörpur sem grafa í tilgangsleysi göng sem leiða ekki til neins. Eru það ekki slíkir menn sem ásaka Jesú um yfirlæti vegna þess að hann sagði við mannfjöldann: „Ég er vegurinn og hlið frelsisins" – Og hann kallaði sig einnig upprisuna og lífið.

En Jesús sagði ekki meira en vorið segir um sjálft sig.

Hefði hann ekki átt að segja þessi miklu sannindi vegna þess hvað þau voru stór?

Hann sagði aðeins sannleikann þegar hann sagðist vera vegurinn, upprisan og lífið, og þau sannindi fékk ég sjálfur að reyna.

Manst þú eftir mér, Nikódemusi, sem

ekki trúði á neitt annað en lög og reglur og lét þær stjórna lífi mínu?

Og nú sérð þú mig, mann sem gengur með lífinu og hlær með sólinni frá fyrstu morgunstund þegar hún brosir til fjallsins og þar til hún sígur bak við hæðirnar.

Hvers vegna ertu að velta vöngum yfir orðinu „frelsi"? Ég hef fundið frelsi mitt í honum.

Ég hef engar áhyggjur af morgundeginum, því að ég veit að Jesús fyllti svefn minn lífi og gerði fjarlæga drauma mína að félögum og samferðamönnum.

Er ég minni maður fyrir að trúa á annan mér æðri?

Þegar skáldið frá Galíleu talaði til mín, braut hann niður hindranir mínar, gerðar af holdi og beinum. Ég varð hrifinn af anda hans og hann bar mig til hæða. Og milli himins og jarðar heyrði ég fagnaðarsönginn sem bar uppi vængi mína.

Þegar ég kom aftur til jarðar og var vængstýfður í öldungaráðinu, þá mundu vængir mínir samt þennan söng. Og öll eymd lág-

lendisins getur ekki rænt mig þessum fjársjóði.

Nú er nóg talað. Látum hina dauðu grafa söng lífsins í sínum daufdumbu eyrum.

Ég læt mér nægja tóna frá þeirri lýru sem hann hélt á og sló, meðan hendur hans voru gegnumreknar og blæðandi.

# Jósef frá Arímaþeu: Tíu árum síðar

Tveir straumar runnu í hjarta Nazareans. Annar var skyldleikinn við Guð sem hann kallaði föður, hinn var hrifningin yfir því sem hann kallaði hið yfirjarðneska ríki.

Og í einsemd minni hugsaði ég um hann og fylgdi þessum tveimur straumum í hjarta hans. Á bökkum annars mætti ég sál minni. Stundum var hún betlari og flækingur, og stundum kóngsdóttir í aldingarði sínum.

Því næst fylgdi ég hinum straumnum í hjarta hans og á leiðinni mætti ég manni sem hafði verið barinn og rændur gulli sínu, og hann brosti. Lengra í burtu sá ég ræningjann sem hafði ráðist á hann og það voru innibyrgð tár í augum hans.

Þá heyrði ég nið þessara tveggja strauma í

mínu eigin brjósti og ég varð glaður í bragði.

Þegar ég kom til Jesú, daginn áður en Pontíus Pílatus og öldungarnir lögðu hönd á hann, ræddum við lengi saman og ég spurði um margt og hann svaraði spurningum mínum hlýlega og af einlægni. Þegar ég fór frá honum, vissi ég að hann var lávarður þessa heims.

Langt er síðan sedrustréð var fellt en ilm sinn skildi það eftir og hann mun leita til allra átta á þessari jörð okkar.

# Georgus í Beirút

Hann og vinir hans héldu sig í furulundinum hinum megin við garðinn minn, og hann talaði til þeirra. Ég stóð við limgerðið og hlustaði. Og ég vissi hver hann var því að frægð hans hafði borist til þessara stranda áður en hann kom sjálfur.

Þegar hann hafði lokið máli sínu, gekk ég til hans og ég sagði: „Sýnið mér og húsi mínu þann heiður að vera gestir mínir“.

Og hann brosti til mín og sagði: „Ekki þennan dag, vinur minn, Ekki þennan dag“.

Og það fylgdi blessun orðum hans og rödd hans sveipaðist um mig eins og frakki um kalda nótt.

Því næst sneri hann sér til vina sinna og sagði: „Hér er maður sem ekki lítur á okkur sem útlendinga. Þó að hann hafi aldrei séð

okkur fyrr, þá býður hann okkur samt inn í hús sitt.

Sannlega segi ég ykkur, í mínu ríki er enginn útlendingur. Líf okkar er ekki neitt annað en líf allra manna, gefið okkur til að skilja aðra menn og elska þá vegna þessa skilnings.

Athafnir allra manna eru ekki annað en okkar athafnir, bæði þær sem menn sjá og eins hinar leyndu.

Þið eigið ekki að vera eitt sjálf heldur mörg. Þið eigið bæði að vera húseigandinn og húsgangurinn, sáðmaðurinn og spörfuglinn sem kroppar kornið áður en það nær að leggjast í dvala í moldinni, gjafarinn sem gefur þakklátur og þiggjandinn sem tekur við gjöfunum með stolti.

Fegurð dagsins er ekki aðeins það sem þið sjáið, heldur líka það sem aðrir menn sjá.

Þess vegna hef ég valið ykkur úr mörgum sem hafa valið mig“.

Því næst sneri hann sér aftur að mér, brosti og sagði: „Þetta segi ég líka við þig og þú skalt minnast þessara orða“.

Þá kraup ég fyrir framan hann og sagði: „Meistari, vilt þú ekki koma inn í hús mitt?“

Og hann sagði: „Ég þekki hjarta þitt og ég hef farið inn í óðal þitt“.

Og um leið og hann lagði af stað með lærisveinum sínum sagði hann: „Góða nótt og megi hús þitt vera nógu stórt til að veita skjól öllum sem um landið fara“.

## María Magdalena

Varir hans voru rjóðar, og skuggar augna hans djúpir.

Hann var blíður eins og maður sem þekkir mátt sinn.

Í draumum mínum sá ég konunga heimsins fulla ótta og virðingar í návist hans.

Mig langar til að tala um andlit hans en hvernig get ég gert mig skiljanlega?

Það var eins og björt nótt og dagur laus við önn dagsins.

Í svip hans var tregi og í svip hans var gleði.

Ég man vel þegar hann rétti eitt sinn hönd sína til himins og fingur hans sýndust eins og greinar álmviðarins.

Og ég man hvernig hann fór um landið í kvöldsvalanum. Hann gekk ekki. Hann virt-

ist sjálfur vegur fyrir ofan veginn, eins og ský yfir jörðinni sem steig niður af himnum til að yfirskyggja hana.

En þegar ég stóð fyrir framan hann og talaði við hann, var hann maður og í svip hans var ólýsanlegur máttur. Og hann sagði við mig: „Hvað vilt þú, Mirjam?“ Ég svaraði honum ekki en vængir mínir sveipuðust um leyndarmál mitt og ég roðnaði.

Og vegna þess að ég þoldi ekki lengur birtu hans, sneri ég frá honum og hélt leiðar minnar, en ég blygðaðist mín ekki. Ég var aðeins feimin og ég vildi vera ein og varðveita mynd hans í hjarta mínu.

## Jótam í Nazaret ræðir við rómverja

Vinur minn, þú vilt eins og allir rómverjar heldur skilja lífið en lifa því. Þú vilt heldur drottna yfir löndum en stjórnast af andanum.

Þú vilt sigra þjóð og láta hana formæla þér fremur en dvelja í Róm og vera blessaður og hamingjusamur.

Þú hugsar aðeins um þrammandi herfylki og flota á siglingu.

Hvernig ættir þú að geta skilið Jesú frá Nazaret, mildan einfara sem kom án hers og skipa til að setja á stofn konungsríki í hjarta mannsins og heimsveldi í frjálsum víðáttum sálarinnar?

Hvernig ættir þú að skilja þennan mann

sem ekki var stríðsmaður en réði yfir máttugu afli andans?

Hann var ekki neinn guð, hann var maður eins og við. En í honum sameinuðust jörð og himinn. Í orði hans blandaðist tal okkar og huldar raddir.

Og í raust hans heyrðum við ódauðlegan söng.

Já, Jesús var maður og ekki guð og það er ástæðan fyrir undrun okkar.

En þið rómverjar undrist aðeins guðina og enginn maður getur vakið furðu ykkar. Þess vegna hafið þið engan skilning á Nazareanum.

Hann var æska andans, þið eruð elli hans.

Þið drottnið yfir okkur í dag. En nýr dagur mun rísa.

Hver veit nema einmitt þessi maður sem hvorki hefur her né flota, eigi eftir að ríkja á morgun?

Við sem fylgjum andanum munum sveitast blóði á ferð okkar eftir vegum hans. En Róm mun verða að hrúgaldi úr beinum sem liggja skinin í sólinni.

Við þjáumst mikið en við höldum velli; við munum lifa. En Róm kemst ekki hjá að falla.

Þó kann svo að fara, ef Róm ákallar nafn hans í auðmýkt og iðrun, að hann hlusti á rödd hennar. Og náð hans mun þá reisa hana úr rústum og gefa henni nýtt líf, svo hún megi aftur verða borg meðal borga í þessum heimi.

En þetta mun hann gera án herfylkja og án þræla til að róa á galeiðum. Hann mun gera þetta einn.

# Efraím í Jeríkó

Þegar hann kom til Jeríkó, leitaði ég á fund hans og sagði við hann: „Meistari, á morgun kvænist sonur minn. Ég bið þig að koma í brúðkaup hans og gera það víðfrægt eins og brúðkaupið í Kana í Galíleu“.

Og hann svaraði: „Satt er það að ég var eitt sinn gestur í brúðkaupsveislu, en ég vil ekki vera gestur aftur. Nú er ég sjálfur brúðguminn“.

Og ég sagði: „Ég þrábið þig, meistari, kom þú í brúðkaup sonar míns“.

Hann brosti eins og hann vildi leiðrétta mig, og hann sagði: „Hvers vegna þrábiður þú mig um þetta? Áttu ekki nóg vín?“

Og ég sagði: „Könnur mínar eru fullar, meistari, þó bið ég þig innilega að koma til brúðkaupsveislu sonar míns“.

Þá sagði hann: „Hver veit. Ef til vill kem ég. Vissulega kem ég ef hjarta þitt er altari í musteri þínu“.

Næsta dag kvæntist sonur minn en Jesús kom ekki til veislunnar. Og þó að gestirnir væru margir fannst mér sem enginn hefði komið.

Satt best að segja var ég, sem bauð gestina velkomna, ekki þarna sjálfur.

Ef til vill var hjarta mitt ekki altari þegar ég bauð honum að koma. Ef til vill bað ég aðeins um annað kraftaverk.

# Barka, kaupmaður í Týrus

Ég held ekki að rómverjar og gyðingar hafi skilið Jesú frá Nazaret. Lærisveinarnir, sem nú boða kenningar hans, skildu hann ekki heldur.

Rómverjar líflétu hann, og það var reginvilla. Galíleumenn vildu gera hann að guði og það er rangur skilningur.

Jesús var á allan hátt maður.

Ég hef siglt höfin sjö með kaupförum mínum og verslað við konunga og þjóðhöfðingja og við svikara og útsmogna prangara á torgum í fjarlægum borgum. En aldrei hef ég hitt mann sem gjörþekkti kaupmenn eins og hann.

Eitt sinn heyrði ég hann segja þessa dæmisögu:

Kaupmaður nokkur yfirgaf heimahaga

sína og fór til ókunnra landa. Hann hafði tvo þjóna og hann fékk þeim báðum hnefafylli af gulli og sagði við þá. „Eins og ég skuluð þið fara af stað og ávaxta þetta fé. Verið réttlátir í allri verslun og viðskiptum“.

Og eftir eitt ár kom kaupmaðurinn aftur.

Og hann spurði þjónana tvo hvað þeir hefðu gert við gull hans.

Hinn fyrri svaraði: „Sjáðu, meistari, ég hef keypt og selt og ég hef hagnast“.

Og kaupmaðurinn sagði: „Þessi hagnaður er þinn því að þú hefur gert rétt og verið trúr bæði mér og sjálfum þér“.

Því næst gekk hinn þjónninn fram og sagði: „Herra ég óttaðist að tapa þessu fé þínu og ég hætti ekki á að kaupa og selja. Sjáðu, hér eru allir peningarnir í þessari pyngju“.

Kaupmaðurinn tók gullið og sagði: „Trú þín er lítil. Að versla og tapa er betra en að standa í stað. Því að eins og vindurinn verður hver kaupmaður að dreifa fræjum sínum og bíða uppskerunnar. Það er við

hæfi að þú farir héðan og gangir í þjónustu einhvers annars.

Þó að Jesús stundaði ekki viðskipti afhjúpaði hann samt leyndardóm viðskiptanna með þessari sögu.

Dæmisaga hans varð mér hugstæð og hún vakti undarlegar hugsanir sem voru fjarlægari en fjarlægustu lönd sem ég hef farið um en voru samt nálægari mér en hús mitt og eignir mínar.

En þessi ungi maður frá Nazaret var ekki neinn guð og það er dapurlegt að fylgjendur hans leitast við að gera guð úr þessum vitra manni.

# Fúmía, æðsta hofgyðjan í Sídon

Leikið á hörpur
og leyfið mér að syngja.
Sláið ykkar strengi,
silfraða, gullna.
Syngja vil ég um hinn óttalausa
sem sigraði drekann í dalnum.
Og síðan leit hann
með samúð í augum
á forynju þá sem hann felldi.

Leikið á hörpur
og saman við skulum syngja
um eikina grænu
sem gnæfði við himin.
Á fjallinu reis hún, í regni og sól.
Kyssti hún dauðans köldu varir.
Lifir þó enn
og lauf hennar titrar í vindum.

Leikið á hörpur,
og saman við skulum syngja
um geiglausa skyttu
sem gekk á fjallið.
Á dýrið hún miðaði ósýnilegri ör.
Og horn þess og tennur
heim með sér færði.

Leikið á hörpur og saman með mér syngið
um hetjuna er sigrað hefur fjallaborgir.
Og borgir á láglendi líka.
Þær lágu á sandi og svipaðar höggormum
voru.
Hann barðist ei við dverga,
hann barðist þar við guði
sem þyrsti í blóð
og hungraði í okkar hold.

Eins og hinn fyrsti frái haukur,
berjast hann vildi aðeins við erni.
Fagurt og mikið vænghaf hans var.
Og litla fugla lét hann alla í friði.

Leikið á hörpur og saman með mér
syngið
hafsins og fjallanna fagnaðaróð.
Guðirnir eru dauðir og lágt þeir liggja
á gleymdri eyju í gleymdum sæ.
Og hann sem þá felldi í hásæti situr.

Og þá var hann aðeins ungur maður,
og ekki að fullu sprottin grön.
Og akur hans sem í sumarbyrjun.

Leikið á hörpur og saman með mér syngið
um fárviðrið mikla sem fer um skóginn.
Storminn sem brýtur kalviði og kvisti
sem fellt hafa börk og blöð.
En lifandi rótina lætur
að brjósti jarðar fastar falla.

Leikið á hörpur og saman með mér syngið
ódauðlegan söng ástvinar míns.
Nei, meyjar mínar, lát hendur ykkar falla
og hörpurnar frá okkur leggjum.
Þennan söng ei sungið við getum.
Ei lágvært hvísl okkar lýsir stormi hans,
og heldur ekki hinni djúpu þögn.

Lát hörpur ykkar hljóðna.
Standið upp og sláið um mig hring.
Orð hans vil ég ykkur endursegja.
Og um verk hans vitni bera,
því rödd hans hefur dýpri enduróm
en okkar dýpsta þrá.

## Skrifarinn Benjamín

Sagt hefur verið að Jesús væri óvinur Rómar og Júdeu.

En ég segi að Jesús var ekki óvinur neins manns og ekki neins kynstofns.

Ég hef heyrt hann segja: „Fuglar himins og fjalla hugsa ekki um slöngur í dimmri urð.

Látum hina dauðu grafa sína dauðu. Lifið sjálf meðal hinna lifandi og fljúgið hátt".

Ég var ekki einn af lærisveinum hans. Ég var aðeins einn af fjöldanum sem fylgdi honum til að sjá andlit hans.

Hann leit á Róm og okkur, sem erum þrælar Rómar, eins og faðir lítur á börn sem leika sér að glingri sínu og slást um leikföng sín.

Og hann hló úr hæðum sínum.

Hann var meira en ríki og kynstofn. Hann var stærri en bylting.

Hann var einn og ókvæntur og hann var spámaður sem vekur þjóð af svefni.

Hann var hryggur yfir ógrátnum tárum okkar og brosti að öllum byltingum okkar.

Við vissum að hann hafði vald til að fæðast með öllum óbornum kynslóðum og gefa þeim sýn, ekki með þeirra augum, heldur með anda hans.

Jesús var upphaf nýs ríkis á jörðinni og það ríki mun standa.

Hann var sonur og sonarsonur allra konunga sem skapa ríki andans.

Og aðeins konungar andans geta stjórnað heimi okkar.

# Sakkeus

Þú trúir á það sem er sagt. Trúðu á hið ósagða því þögn mannsins er meiri sannleikur en orð hans.

Þú spyrð hvort Jesús hefði getað umflúið dauða sinn og bjargað fylgjendum sínum frá ofsóknum.

Ég svara: Auðvitað hefði hann getað það ef hann hefði kosið það. En hann leitaði ekki að öryggi og hjörð hans bauð úlfum næturinnar byrginn.

Hann þekkti hlutverk sitt og framtíð sinna trúföstu vina. Hann sagði fyrir um framtíð okkar hvers og eins. Hann leitaði ekki dauðans. Hann hugsaði um dauðann eins og akuryrkjumaður sem leggur fræ sitt í mold og bíður svo vorsins og síðan uppskerunnar. Og eins og húsasmiður lagði hann stærsta steininn í grunninn og gerði hann að hyrningarsteini hússins.

Við vorum menn frá fjallahlíðum Galíleu og Líbanons. Meistari okkar gat vel fært okkur aftur heim í átthagana þar sem við hefðum getað búið við blessun hans þar til aldurinn færðist yfir og við hyrfum á vit eilífðarinnar.

Var nokkuð sem hefti för hans heim í musterin í borgum okkar, þar sem aðrir lásu ritningar spámannanna, og útskýrðu þær síðan?

Gat hann ekki sagt: „Með vestanvindinum fer ég burt í austur", og yfirgefið okkur síðan með bros á vör?

Já. Hann hefði líka getað sagt: „Farið aftur til ættmenna ykkar. Heimurinn er ekki tilbúinn að veita mér viðtöku. Eftir nokkur þúsund ár kem ég aftur. Kennið afkomendum ykkar að bíða endurkomu minnar".

Hann gat gert þetta allt, hefði hann valið slíka kosti.

En hann vissi að til að byggja hið ósýnilega musteri varð hann sjálfur að verða hornsteinn þess og hlaða okkur sem litlum steinum við hlið sér.

Hann vissi að safinn í heimstré hans varð að koma frá rótum þess og hann úthellti sínu eigin blóði á þessar rætur, og í hans augum var það ekki fórn, en miklu fremur hinn endanlegi sigur.

Dauðinn er ný birting. Dauði Jesú varð upphaf að nýju lífi.

Hefði hann flúið frá ykkur og óvinum sínum, þá hefðuð þið sigrað heiminn. Þess vegna flúði hann ekki.

Aðeins sá sem vill allt verður að gefa allt.

Já, Jesús hefði getað flúið frá óvinum sínum og náð háum aldri. En hann þekkti hið hverfula eðli árstíðanna og hann vildi syngja söng sinn.

Og hvaða maður sem stendur andspænis vígbúnum heimi vildi ekki þola ósigur litla stund til að sigra um alla eilífð?

Og nú spyrð þú, hverjir það hafi raunverulega verið sem líflétu Jesú, rómverjarnir eða prestar Jerúsalem.

Það voru hvorki rómverjar né prestar Jerúsalem. Allur heimurinn stóð á þessari hæð til að krýna hann.

# Jónatan

Dag einn reri ég með ástvinu minni á vatninu. Og yfir okkur gnæfðu tindar Líbanonsfjalla.

Báturinn rann hægt áfram undir greinum gullregnsins sem spegluðust í vatninu.

Meðan ég stýrði bátnum með einni ár, tók ástvina mín fram lútu sína og söng þetta ljóð:

Hvaða blóm þekkir sól og vatn eins vel og
lótusblóm?
Hvaða hjarta þekkir himin og jörð eins
vel og lótushjartað?
Sjáðu ást mín blómið gullna
sem svífur milli hæða og djúpa,
eins og þú og ég
svífum milli ástar sem alltaf hefur verið
og um eilífð skal verða.

Leggðu út árina, ástvinur minn,
og ég skal hreyfa strengi mína.
Við skulum fylgja gullregninu
og ekki yfirgefa lótusblómin.

Í Nazaret er skáld eitt,
hjarta hans er eins og lótusblóm.
Hann þekkir sál okkar.
Hann þekkir þorsta hennar
sem rís upp úr djúpunum
og þrá hennar eftir ljósi.
Sagt er mér, að hann sé á ferð í Galíleu.
Ég segi samt: Hann rær með okkur.
Sérð þú ekki auglit hans, ástvinur minn?
Sérð þú ekki að þar sem gullregnið
mætir spegilmynd sinni í vatninu,
þar er hann?

Ástvinur minn,
það er gott að þekkja hið unga líf.
Það er gott að þekkja fögnuð þess.
Megir þú alltaf eiga ár þína
og ég mitt strengjaspil.
En hvað lótusblómið er fagurt
í sólskininu.
Og gullregnið beygir sig niður að vatninu.
Og rödd hans er í strengjum mínum.

Leggðu út árina, ástvinur minn,
og ég skal hreyfa strengi mína.
Til er skáld eitt í Nazaret,
sem þekkir og elskar okkur bæði.
Leggðu út árina, ástvinur minn,
og ég skal hreyfa strengi mína.

# Hanna í Betsaída: Árið 73

Þegar föðursystir mín var ung kona, fór hún frá okkur og tók sér bústað í kofa hjá gömlum víngarði föður síns.

Hún bjó ein og fólkið í sveitinni kom til hennar með sjúkdóma sína. Og hún læknaði það með grænum grösum og rótum og með sólþurrkuðum blómum.

Það taldi hana í hópi sjáenda, en þeir voru líka til sem kölluðu hana norn.

Dag einn sagði faðir minn við mig: „Far þú með þennan brauðhleif og þessa vínkönnu og þessa rúsínukörfu til systur minnar“.

Allt var þetta sett upp á ungan hest og ég fór sem leið lá til víngarðsins og kofa frænku minnar. Og hún varð glöð.

Þegar við sátum þarna saman í kvöldsvalanum, fór maður nokkur hjá. Hann heilsaði

frænku minni með orðunum: „Gott kvöld og megi blessun næturinnar vera með þér".

Föðursystir mín reis á fætur og hún stóð fyrir framan hann, full lotningar, og sagði: „Gott kvöld, þú meistari allra góðra anda og vörður allra illra anda".

Maðurinn horfði á hana mildur á svip og hélt leiðar sinnar.

En ég hló með sjálfri mér. Ég hélt að frænka mín væri orðin rugluð. En nú veit ég að hún vissi sínu viti. Það var ég sem ekkert skildi.

Hún vissi að ég gerði gys að henni þó að ég léti ekki á því bera.

Og hún talaði til mín, en ekki reiðilega. Hún sagði: „Hlustaðu á mig, dóttir mín, og taktu mark á orðum mínum og geymdu þau í minni. Einmitt þessi maður sem fór hér hjá eins og skuggi af fugli sem flýgur milli sólar og jarðar mun berjast við keisara og keisaraveldi. Hann mun berjast við hið krýnda naut Kaldeu og egypska ljónið með mannshöfuðið, og hann mun sigra bæði. Og hann mun stjórna heiminum.

En það land, sem hann nú fer um, mun að engu verða. Og Jerúsalem, sem gnæfir stolt á hæðinni, hverfur sem reykur í eyðingavindum“.

Þegar hún hafði þetta mælt var mér ekki lengur hlátur í huga og ég varð þögul. Því næst spurði ég: „Hver er þessi maður? Úr hvaða landi kemur hann og frá hvaða þjóð? Og hvernig getur hann sigrað þessa voldugu konunga og alla heri þeirra?“

Og hún svaraði: „Hann er maður fæddur hér í þessu landi, en við höfum frá morgni tímans átt hann í löngunum okkar. Hann heyrir til öllum þjóðum og þó engri. Hann mun sigra með orðum sínum og eldlegum anda“.

Þá stóð hún skyndilega á fætur og varð óhagganleg eins og bjarg og hún sagði: „Megi englar Guðs fyrirgefa mér að ég verð líka að mæla þessi orð: Hann mun líflátinn verða og æska hans verður sveipuð líkklæði, og hann verður lagður að hinu stóra hjarta jarðarinnar. Og meyjar Júdeu munu syrgja hann“.

Hún lyfti hönd sinni til himins og hélt áfram: „En aðeins líkaminn verður deyddur.

Hann mun rísa upp í anda og senda sína liðsmenn héðan frá þessu landi, þar sem sólin rís, til landsins þar sem sólin hverfur að kvöldi.

Og nafn hans verður vegsamað meðal þjóða“.

Hún var gamall sjáandi þegar hún sagði þetta og ég var þá aðeins ung stúlka, óplægður akur, steinn sem enn hafði ekki verið lagður í neinn múr.

En allt sem hún sá í spegli sálar sinnar hefur nú fram komið og það gerðist á minni tíð.

Jesús frá Nazaret reis upp frá dauðum og sendi menn og konur til þjóða sólsetursins. Borgin sem dæmdi hann varð eyðingunni að bráð. Og í réttarsalnum, þar sem hann var yfirheyrður og dæmdur, vælir nú uglan sinn sorgarsöng meðan nóttin lætur daggir hjarta síns drjúpa á hruninn marmarann.

Ég er gömul kona og ellin mæðir mig.

Mínir nánustu eru látnir og ætt mín er horfin.

Aðeins einu sinni eftir þennan dag sá ég hann og heyrði rödd hans. Það var uppi á hæð einni þar sem hann talaði til vina sinna og fylgjenda.

Og nú er ég gömul og ein en ennþá birtist hann mér í draumum mínum.

Hann kemur sem hvítur engill og náð hans hrekur burt ótta minn við myrkrið. Og hann vekur hjá mér enn fjarlægari drauma.

Ég er ennþá óplægður akur, óþroskaður ávöxtur sem ekki féll til jarðar. Það besta sem ég á er ylur sólarinnar og minningin um þennan mann.

Ég veit að það verður sem frænka mín spáði að með mínu fólki komi ekki framar fram konungur, spámaður eða prestur.

Við berumst burt með straumnum og hverfum til hinna nafnlausu.

En þeirra sem fóru framhjá honum í miðjum straumnum verður minnst fyrir það eitt að hafa farið hjá.

# Manasse, lögvitringur í Jerúsalem

Já, ég heyrði hann oft tala. Hann var alltaf skjótur til svara.

En ég dáðist að honum fremur sem manni en leiðtoga. Hann boðaði eitthvað sem var of háfleygt til að ég kynni að meta það. Kannski var það ofar mínum skilningi. Og ég hef litlar mætur á prédikunum.

Ég heillaðist af rödd hans og fasi en ekki því sem hann sagði. Hann vakti aðdáun mína en sannfærði mig aldrei. Orð hans voru of óljós, of fjarlæg og torskilin til að höfða til mín.

Ég hef þekkt menn eins og hann. Þeir eru aldrei rökfastir eða sjálfum sér samkvæmir. Þeir vekja athygli á óljósri hugmynd með mælsku sinni en ekki með rökfastri hugsun og þeir komast aldrei að innsta kjarnanum.

Það var hörmulegt að óvinir hans skyldu draga hann fyrir dóm og þvinga málið í gegn. Það var ekki nauðsynlegt. Ég hygg að fjandskapur þeirra auki gildi hans og breyti mildi hans í mátt.

Er það ekki undarlegt að þeir sem beita sér gegn manni gefa honum með því vald, og með því að hlekkja fætur hans gefi þeir honum vængi?

Ég þekki ekki óvini hans. Ég er þó viss um að með ótta sínum við meinlausan mann hafa þeir gefið honum vald og gert hann hættulegan.

# Jefta í Sesareu

Ekki geðjast mér að þessum manni sem þú hugsar um daga og nætur. Samt heldur þú áfram að þreyta eyru mín með orðum hans og sál mína með frásögnum af verkum hans.

Ég er dauðþreyttur á orðum hans og öllu sem hann gerði. Jafnvel nafn hans og nafnið á átthögum hans vekja hjá mér ógeð. Ég vil ekkert um hann vita.

Hvers vegna að gera spámann úr manni sem aðeins var skuggi?

Hvers vegna sjá menn turn í þessari þúfu og stöðuvatn í þessu hófspori, fullu af regnvatni?

Ég fyrirlít ekki bergmálið í hellum dalsins ellegar langa skugga sólarlagsins. En ég vil ekki hlusta á blekkinguna sem er sísuðandi í

höfði þínu. Ég vil ekki horfa á það sem endurspeglast í augum þínum.

Hvað sagði Jesús sem Halíel hefur ekki áður sagt? Hvaða visku kom hann með sem ekki má rekja til Gamalíels? Hvað er hvísl hans í samanburði við rödd Fílós?

Hvaða tóna sló hann sem hafa ekki verið slegnir, jafnvel áður en hann fæddist?

Ég hlusta á bergmálið í hellum í hljóðum dölum og ég horfi á langa skugga sólarlagsins. En ég er ekki ánægður með að hjarta þessa manns sé endurómur annars hjarta, og ég er ekki heldur ánægður með að skuggi hinna miklu sjáenda skuli sjálfur kalla sig spámann.

Hvaða maður getur talað, eftir að Jesaja hefur talað? Hver vogar sér að syngja eftir Davíð? Og ætti viskan að vera að fæðast núna, eftir að Salómon er genginn til feðra sinna?

Voru ekki tungur spámanna okkar sverð og varir þeirra eldblossar?

Skildu þeir eftir svo mikið sem eitt einasta strá handa þessum fræsafnara úr Galíleu?

Eða skemmdan ávöxt til þessa betlara að norðan? Hans hlutverk var ekki annað en að brjóta það brauð sem þegar var bakað af feðrunum, að veita það vín sem helgir fætur þeirra höfðu fyrir löngu kreist úr fornum vínþrúgum.

Ég heiðra hönd leirkerasmiðsins, ekki manninn sem leirkerið kaupir.

Ég heiðra fremur þann sem situr við vefinn en bóndann sem klæðin ber.

Hver er þessi Jesús frá Nazaret og hvað var hann? Maður sem þorði ekki að lifa kenningar sínar? Þess vegna féll hann í gleymsku og hans saga er öll.

Ég bið þig að íþyngja ekki eyrum mínum með tali um orð hans og verk. Hjarta mitt er barmafullt af hinum gömlu spámönnum og það er mér nóg.

# Jóhannes hinn elskaði lærisveinn: Á efri árum

Þú vilt fá mig til að tala um Jesú. En hvernig get ég tjáð fagnaðarerindi heimsins með tómri hljóðpípu?

Hverja einustu stund dagsins var Jesús í vitundarsambandi við Föðurinn. Hann fann nærveru hans í skýjum, og skuggum þeirra sem líða um jörðina. Hann sá andlit Föðurins speglast í kyrru vatni og létt fótspor hans í sandinum. Og hann lokaði oft augum sínum til að horfa inn í hin helgu augu.

Nóttin talaði til hans með rödd Föðurins og í einverunni heyrði hann engla Guðs tala. Og þegar hann féll í svefn, þá heyrði hann lágróma rödd himinsins í draumum sínum.

Hann gladdist oft með okkur og hann var vanur að kalla okkur bræður sína.

Skilur þú það? Hann sem var hið fyrsta

orð kallaði okkur bræður, þó að við værum aðeins nýyrði frá í gær.

Þú spyrð hvers vegna ég kalli hann hið fyrsta orð.

Hlustaðu á mig og ég skal svara:

Guð var hin fyrsta hreyfing í tóminu. Og af þeirri hreyfingu, sem ekkert fær lýst, skapaðist heimurinn og tíminn.

Og Guð hreyfði sig aftur og lífið streymdi fram og löngun lífsins leitaði hæða og djúpa og lífið vildi meira af sjálfu sér.

Þá talaði Guð og orð hans varð maður, og maðurinn varð andi, tendraður af anda Guðs.

Og þegar Guð talaði þannig, var Kristur fyrsta orð hans og þetta orð var fullkomnun. Og þegar Jesús frá Nazaret kom í heiminn, þá var hið fyrsta orð sagt við okkur, og það varð hold og blóð.

Jesús, hinn smurði, var fyrsta orð Guðs til mannsins, eins og þegar eplatré í aldingarði ber blóm á undan öðrum trjám. Og í aldingarði Guðs varð sá dagur að eilífð.

Við erum öll synir og dætur hins æðsta en

hinn smurði var frumburðurinn og hann var Jesús frá Nazaret. Og hann gekk um meðal okkar og við vorum hjá honum.

Allt þetta segi ég þér svo að þú megir öðlast skilning, ekki aðeins með skynseminni, heldur miklu fremur í andanum. Hugurinn mælir og vegur en andinn kemst inn að kjarna lífsins og finnur leyndardóminn. Og fræ andans eru yfirskilvitleg.

Vindurinn blæs og síðan lygnir, hafið hrannast upp og kyrrist aftur, en hjarta lífsins er þögult æðra svið og stjarnan sem þar skín stendur stöðug um alla eilífð.

# Mannus frá Pompeii ræðir við grikkja

Gyðingar, eins og grannar þeirra föníkíumenn og arabar, gefa guðum sínum ekki stundlegan frið til að hvíla sig í hæðum sínum.

Þeir hugsa of mikið um guðdóminn og skipta sér of mikið af bænum, fórnum og helgisiðum annarra.

Þegar við rómverjar látum okkur nægja að byggja marmaramusteri fyrir guði okkar, þá rökræða þessir menn endalaust um eðli guða sinna. Þegar við gefum okkur trúarlegri hrifningu á vald, syngjum við og dönsum kringum altarið fyrir Júpíter og Júnó og fyrir Venus og Mars. En þeir sýna trú sína með því að klæðast yfirbótarfeldi og bera ösku í hár og skegg. Já, og harma að þeir skyldu nokkurn tíma hafa fæðst.

Og Jesú, manninn sem flutti fagnaðarerindið, hann píndu þeir og tóku síðan af lífi.

Þessir menn sætta sig ekki við guð hamingjunnar. Þeir þekkja aðeins guði þjáninga sinna.

Jafnvel vinir og lærisveinar Jesú, sem þekktu gleði hans og heyrðu hlátur hans, gera sér mynd af kvöl hans og tilbiðja þá mynd.

Og í þeirri tilbeiðslu lyfta þeir sér ekki upp til guðdómsins heldur draga hann niður til sín.

Samt sem áður held ég að þessi heimspekingur, Jesús, sem ekki var ósvipaður Sókratesi, fái er tímar líða vald yfir kynstofni sínum og ef til vill öðrum kynstofnum líka.

Við erum satt að segja öll þunglynd og óráðin að eðlisfari. Og þegar einhver segir við okkur: „Við skulum gleðjast með guðunum", komumst við ekki hjá að hlusta á rödd hans. En því miður voru þjáningar þessa manns gerðar að trúarsetningum.

Þessir menn munu finna í honum nýjan

Adonis, guð sem var líflátinn í skóginum, og þeir munu halda dauða hans hátíðlegan. Sorglegt að þeir skuli ekki hafa tekið eftir hlátri hans.

En erum við betri, grikkir og rómverjar? Heyrum við hlátur Sókratesar á götum Aþenu? Dettur okkur í hug, jafnvel á sjálfu Díonýsosarleiksviðinu, að gleyma ediksbikarnum?

Og er reyndin ekki sú að feður vorir standa enn á götuhornum til að fá fréttir af harmleikjum og leita sér um stund huggunar í hörmulegum endalokum okkar bestu manna?

# Pontíus Pílatus

Eiginkona mín talaði oft um hann áður en þeir komu með hann til mín, en ég hafði engan áhuga.

Kona mín er draumlynd og eins og margar rómverskar konur hneigist hún að austurlenskri trúarspeki. En sú trúarspeki er heimsveldinu hættuleg. Og þegar konur okkar láta heillast af henni, brýtur hún þær niður siðferðilega.

Menning egypta féll, þegar arabískur tötralýður kom með þeirra eina eyðimerkurguð inn í landið. Og Grikkland var sigrað og því sundrað þegar Astarte og meyjarnar hennar sjö komu þangað frá ströndum Sýrlands.

Ég hafði aldrei séð þennan mann, Jesú, fyrr en komið var með hann til mín sem

afbrotamann, fjandmann sinnar eigin þjóðar og einnig fjandmann Rómaveldis.

Þeir höfðu bundið hendur hans áður en þeir leiddu hann inn í réttarsalinn.

Ég sat í hásætinu og hann gekk til mín með löngum, föstum skrefum og nam staðar fyrir framan mig með reist höfuð.

Ég skil ekki hvað kom yfir mig á þessari stund. Ég var skyndilega gripinn löngun, gegn vilja mínum, til að stíga niður úr hásætinu og beygja kné mín fyrir þessum manni.

Mér fannst sjálfur keisarinn hafa gengið í salinn, maður sem jafnvel var stærri en sjálf Rómaborg.

En þetta stóð litla stund. Og brátt sá ég aðeins mann sem hans eigið fólk hafði kært fyrir landráð. Og ég var landshöfðingi hans og dómari.

Ég yfirheyrði hann, en hann svaraði engu. Hann horfði aðeins á mig. Og það var vorkunnsemi í augum hans, líkt og það væri hann sem væri minn landshöfðingi og dómari.

Þá heyrðust að utan köll mannfjöldans. En hann var enn þögull og hélt áfram að horfa á mig eins og hann aumkaði mig.

Ég gekk út á hallarþrepin og þegar fólkið sá mig, sló þögn á hópinn. Og ég spurði: „Hvað viljið þið að ég geri við þennan mann?“

Og mannfjöldinn hrópaði einum rómi: „Við viljum krossfesta hann. Hann er óvinur okkar og óvinur Rómaveldis“.

Og aðrir kölluðu: „Sagðist hann ekki vilja brjóta musterið niður? Var það ekki hann sem gerði kröfur um að stjórna ríkinu? Við viljum engan konung nema Cesar“.

Ég sneri frá mannfjöldanum og gekk aftur inn í réttarsalinn og ég sá að hann stóð þarna ennþá, aleinn með uppreist höfuð.

Ég minntist þess að hafa lesið eftir grískan heimspeking þessi orð: „Hinn sterkasti stendur einn“. Á þessari stundu var Nazareinn stærri en þjóð hans.

Ég fann ekki til yfirburða minna gagnvart honum, mér virtist hann vera hafinn yfir

mig. Þess vegna spurði ég: „Ert þú konungur gyðinga?“

Og hann svaraði engu orði.

Og ég spurði aftur: „Hefur þú ekki sagst vera konungur gyðinga?“

Og hann horfði á mig.

Því næst svaraði hann og það var rósemi í rödd hans: „Þú kallar mig sjálfur konung. Ef til vill er ég til þess fæddur og kominn til að bera sannleikanum vitni“.

Hugsa þú þér mann sem á slíkri stundu gat rætt um *sannleikann!*

Ég varð óþolinmóður og sagði hátt, ekki síður við sjálfan mig en hann: „Hvað er sannleikur? Og hvað er sannleikur hins saklausa manns þegar böðullinn hefur lokið verki sínu?“

Þá sagði Jesús með styrkri rödd: „Enginn mun geta stjórnað heiminum án anda og sannleika“.

Og ég spurði hann: „Ert þú af anda?“

Hann svaraði: „Það ert þú líka án þess að vita það“.

Og hvar var andinn, og hvar var sannleikurinn þegar ég, vegna ríkisins og vegna gamalla trúarsetninga, sendi saklausan mann í dauðann?

Enginn maður, engin þjóð og ekkert heimsveldi fórnar valdi sínu fyrir sannleika.

Og ég sagði aftur: „Ert þú konungur gyðinga?"

Og hann svaraði: „Þú segir það sjálfur. Áður en þessi stund er liðin hef ég sigrað heiminn".

Af öllu sem hann sagði var þetta það eina sem ekkert vit var í, því aðeins Róm hafði sigrað heiminn.

En nú heyrðust aftur hróp fjöldans og þau voru enn háværari en áður.

Ég steig niður úr dómarasæti mínu og sagði við hann:

„Fylg þú mér".

Og aftur stóð ég á hallarþrepunum og hann við hlið mér.

Þegar fólkið sá hann, ærðist það og hróp þess voru eins og þrumur. Ég heyrði engin

orð önnur en: „Krossfestum hann, krossfestum hann!“

Þá fékk ég hann í hendur prestunum, sem höfðu komið með hann til mín, og ég sagði við þá: „Gerið það sem þið viljið við þennan réttláta mann. Og þið getið, ef þið viljið, fengið rómverska hermenn til að gæta hans“.

Og þeir tóku hann og ég mælti svo fyrir að á krossinn yfir höfði hans skyldi skrifað: „Jesús frá Nazaret, konungur gyðinga“. Ég hefði heldur átt að segja. Jesús frá Nazaret, konungur.

Og maðurinn var sviptur klæðum og húðstrýktur og krossfestur.

Ég hefði getað bjargað honum. En það hefði komið af stað uppreisn. Og það er hyggilegt af landshöfðingja í rómversku skattlandi að vera umburðarlyndur gagnvart trúargrillum sigraðrar þjóðar.

Þennan dag trúði ég því að maðurinn væri meira en venjulegur trúboði. Það sem ég fyrirskipaði var ekki minn vilji, það var fremur gert fyrir Róm.

Þess var ekki langt að bíða að við færum frá Sýrlandi, og upp frá þeim degi hefur kona mín ekki litið glaðan dag. Jafnvel hér sé ég stundum harmleik í augum hennar.

Mér hefur borist til eyrna að hún tali mikið um Jesú við aðrar konur í Róm.

Sjá, maðurinn sem ég dæmdi til dauða snýr við úr heimi skugganna og gengur inn í mitt eigið hús.

Margoft spyr ég sjálfan mig: „Hvað er sannleikur og hvað er ekki sannleikur?“

Er hugsanlegt að sýrlendingurinn sé að sigra okkur dulinn í myrkri næturinnar?

Auðvitað getur það ekki gerst.

Rómaveldi heldur velli og illir draumar eiginkvenna okkar verða því ekki að falli.

# Bartólómeus í Efesus

Óvinir Jesú segja að þrælar og utangarðsmenn vilji helst hlusta á hann og hann hafi æst þá til að rísa gegn herrum sínum. Þeir segja að hann hafi sjálfur verið af lágum stigum og höfðað til þeirra sem svipað var ástatt um. Samt hafði hann reynt að leyna uppruna sínum.

En við skulum líta á lærisveina Jesú og forsjá hans.

Í upphafi valdi hann sér til fylgdar nokkra menn norðan úr landi og þar fóru frjálsir menn. Líkami þeirra var hraustur og hugurinn djarfur og á umliðnum áratugum hafa þeir barist sem hetjur og boðið dauðanum byrginn.

Voru þessir menn þrælar ellegar utangarðsmenn?

Heldur þú að stoltir höfðingjar í Líbanon og í Armeníu hafi gleymt göfgi sinni þegar þeir tóku upp trúna á Jesú, spámann sem kom frá Guði?

Heldur þú að eðalbornar konur og karlmenn í Antíokkíu og í Miklagarði og í Aþenu og Róm hafi lotið rödd manns sem aðeins var leiðtogi þræla?

Nei, Nazareinn stóð ekki með þjóni gegn herra, ekki heldur með herra gegn þjóni. Hann stóð aldrei með neinum gegn öðrum manni.

Hann var ofar öllum mönnum og í honum urðu straumar ástríðu og máttar að söng lífsins.

Ef aðalstign er að vernda hina veiku, þá var hann æðstur aðalsmanna. Ef frelsi er í hugsun, athöfn og orðum, þá var hann frjálsastur allra manna. Ef ættgöfgi birtist í stolti sem lýtur ástinni einni, ef hún birtist í einsemd sem alltaf er mild og gjöful, þá var hann ættgöfugastur allra manna.

Gleymið ekki að aðeins hinir sterku og hinir fótfráu vinna lárviðarsveiga, og að

Jesús var krýndur lárviðarsveigum af þeim sem elskuðu hann og einnig af óvinunum án þess þeir vissu það.

Jafnvel nú er hann krýndur á hverjum degi af kvenprestum gyðjunnar Artemisar í myrkum afkimum í musteri hennar.

# Matteus

Kvöld eitt gekk Jesús framhjá fangelsi nokkru sem var í Davíðsturni. Og við gengum á eftir honum. Hann hægði allt í einu á sér og lagði vanga sinn fast að fangelsisveggnum. Og hann sagði: „Bræður míns forna dags, hjarta mitt slær með hjörtum ykkar sem bak við þessar járngrindur bíðið. Ég vildi að þið væruð frjálsir í frelsi mínu og kæmuð með mér og félögum mínum. Þið eruð læstir inni en þið eruð ekki einir. Margir eru fangarnir sem ganga um þessar götur. Vængir þeirra eru ekki stýfðir en eins og páfuglarnir geta þeir aðeins blakað þeim, ekki hafið sig til flugs.

Bræður mínir á öðrum degi. Ég skal bráðum vitja ykkar í fangaklefana og leggja byrði ykkar á mínar herðar. Því hinn sak-

lausi og hinn seki verða ekki aðskildir og eins og beinin í framhandleggnum eru þeir alltaf saman.

Bræður mínir á þessum degi, sem er minn dagur. Þið syntuð gegn straumi skynseminnar og voruð veiddir. Sagt er að ég syndi líka gegn þeim straumi. Ef til vill verð ég brátt með ykkur, lögbrjótur meðal lögbrjóta.

Bræður mínir á degi, sem enn er ókominn. Þessir veggir munu hrynja og annað verður gert úr þessum steinum, af honum sem hefur ljósið að hamri og storminn að meitli. Og þið verðið frjálsir í frelsi míns nýja dags".

Þannig talaði Jesús og hann gekk áfram, og hönd hans straukst við fangelsismúrinn uns hann yfirgaf Turn Davíðs.

# Andrés

Beiskja dauðans er betri en líf án hans. Dagarnir hljóðnuðu og glötuðu lit sínum þegar þeir líflétu hann. Orð hans eru bergmál í huga mér, ekki rödd hans.

Einu sinni heyrði ég hann segja: „Gakk þú í þrá þinni út á engið og sestu niður hjá liljublómum og hlustaðu á lágværan söng þeirra í sólskininu. Þau vefa ekki klæði og gera sér ekki hús úr grjóti og viði. Samt syngja þau.

Hann sem er að verki í nóttinni gefur þeim allt sem þau þurfa og náðardaggir hans drjúpa á blöð þeirra.

Og gætir hann ekki einnig ykkar, hann sem hvorki þreytist né hvílist?"

Og eitt sinn heyrði ég hann segja: „Faðir ykkar fylgist með fuglum himinsins og telur þá, jafnvel hárin á höfði ykkar eru talin. Það fellur enginn fugl að fótum skyttunnar og ekki eitt einasta hár á höfði ykkar gránar og fellur í tóm tímans án vitundar hans".

Og öðru sinni sagði hann: „Ég hef séð ykkur hugsa í laumi: „Guð okkar verður miskunnsamari við okkur, börn Abrahams, en við hina sem ekki þekktu hann í upphafi“.

En ég segi ykkur að eigandi víngarðs, sem kallar suma til vinnu að morgni og aðra á elleftu stundu og greiðir þeim öllum jafnt, er réttlátur maður. Greiðir hann ekki sitt eigið fé sem honum er frjálst að gefa?

Þannig mun Faðir minn opna hlið hallar sinnar jafnt fyrir útlendingum og ykkur öllum sem til hans leita. Hann hlýðir á nýjan söng með sömu alúð og á þann sem oft er sunginn. Og með sérstakri gleði því að einmitt þetta er hans nýjasta ljóð“.

Og enn heyrði ég hann segja: „Munið það að þjófur er maður í nauð, lygari er maður sem lifir í ótta. Veiðimaðurinn sem er eltur uppi af varðmanni nætur ykkar, er einnig eltur af varðmanni ykkar eigin myrkurs.

Ég vil að þið vorkennið þeim öllum.

Ef þeir leita til ykkar, opnið þá dyrnar og

bjóðið þeim sæti við borðið hjá ykkur. Ef þið gerið það ekki, þá er yfirsjón þeirra einnig ykkar synd".

Og dag einn fylgdi ég honum ásamt öllum hópnum til markaðstorgsins í Jerúsalem. Og hann sagði okkur dæmisöguna um glataða soninn og dæmisöguna um kaupmanninn sem seldi allar sínar eigur til að kaupa perluna einu.

Meðan hann talaði komu farísearnir inn í mannþyrpinguna með konu eina sem þeir kölluðu bersynduga. Og þeir veittust að Jesú og sögðu við hann: „Hún svívirti heilög hjúskaparheit og var staðin að verki".

Og hann horfði á hana. Og hann lagði hönd sína á enni hennar og horfði djúpt í augu hennar.

Þá sneri hann sér að þeim sem komið höfðu með hana og hann horfði á þá lengi.

Og hann beygði sig niður og skrifaði með fingri sínum í sandinn.

Hann reit nafn sérhvers manns og hin illu verk sem hver þeirra hafði unnið.

Og meðan hann skrifaði tóku þeir að

blygðast sín og forðuðu sér af torginu út í strætin.

Og þegar hann hafði lokið við að skrifa, voru aðeins konan og við eftir hjá honum.

Og aftur leit hann í augu hennar og sagði: „Þú hefur elskað mikið. Þeir sem komu með þig hingað hafa kalt hjarta. Þú varst snara sem mér var ætluð.

Far þú nú í friði.

Hér er enginn þeirra lengur til að dæma þig. Og ef það er löngun þín að vera vitur og gera ást þína göfuga, leitaðu þá mín. Mannssonurinn dæmir þig ekki".

Og þá hvarflaði að mér að hann kynni að segja þetta við hana vegna þess að sjálfur væri hann ekki syndlaus.

En margt varð mér síðar ljósara en þá og nú veit ég að aðeins þeir hjartahreinu fyrirgefa þann þorsta sem leiðir menn að forarpollum.

Nú veit ég að aðeins hinn fótvissi getur stutt þann sem hrasar.

Og aftur og enn aftur segi ég: Beiskja dauðans er betri en líf án hans.

# Ríkur maður

Hann fór hörðum orðum um ríka menn. Og dag einn lagði ég fyrir hann spurningu og sagði: „Hvað á ég að gera til að öðlast sálarró?"

Og hann sagði mér að gefa fátækum eigur mínar og fylgja sér.

En hann átti ekki neitt. Þess vegna þekkti hann ekki öryggið og frelsið sem eigur færa okkur. Ekki heldur þá upphefð og þá sjálfsvirðingu sem þeim eru samfara.

Í húsi mínu eru sex tugir þræla og þjóna. Sumir vinna á ekrum mínum og í víngörðum mínum. Aðrir fara á skipum mínum til fjarlægra landa.

Hefði ég nú hlýtt honum og gefið eigur mínar fátækum, hvað hefði þá orðið um þræla mína og þjóna og konur þeirra og

börn? Þau hefðu öll orðið betlarar við borgarhliðið eða við anddyri musterisins.

Nei, þessi góði maður skildi ekki leyndardóm auðsins. Vegna þess að hann og félagar hans lifðu á annarra auði, fannst honum að allir ættu að gera það sama.

Þetta er mér ráðgáta og mótsögn: Eiga ríkir menn að gefa fátækum auð sinn og verða fátæklingarnir að fá mat og drykk hinna ríku til þess síðan að bjóða þeim að borðum sínum?

Og þarf herra hallarinnar nauðsynlega að gefa landsetum sínum vistir áður en hann getur kallað sig herra á sinni eigin jörð?

Maurinn sem safnar fæðu til vetrarins er hyggnari en engisprettan sem lifir í fögnuði í dag og sveltur á morgun.

Nú á hvíldardaginn sagði einn fylgjenda hans á torginu: „Við þröskuld himnanna getur Jesús lagt frá sér skó sína, en enginn maður annar er þess verður að halla þar höfði sínu“.

En ég spyr: „Við hvaða þröskuld í hvaða húsi gæti þessi heiðvirði förumaður lagt skó

sína? Hann hefur sjálfur aldrei átt neinn þröskuld og aldrei neitt hús. Stundum hefur hann ekki einu sinni átt neina skó til að skilja eftir.

# Jóhannes á Patmos

Enn einu sinni ætla ég að tala um hann.

Guð gaf mér rödd og löngun til að lýsa honum en engin orð sem honum hæfa.

Orð mín skorta alla fyllingu þó að þau komi á varir mínar úr djúpi hjarta míns.

Jesús elskaði mig og ég vissi ekki hvers vegna.

Og ég elskaði hann því að hann lyfti anda mínum í hæðir sem ég get sjálfur ekki náð, sýndi mér djúp sem ég gat sjálfur ekki kafað.

Að elska er heilagur leyndardómur.

Þeir sem elska geta ekki tjáð ást sína í orðum.

En þeir sem ekki elska, halda að hún sé aðeins innantómt gaman til að hæðast að.

Jesús kallaði á mig og bróður minn þar sem við unnum á akrinum.

Þá var ég ungur og hafði aðeins heyrt rödd morgunsins.

En rödd hans og hljómur hennar táknaði endalok erfiðis míns og upphaf hugsjóna minna.

Ég gat ekkert annað gert en ganga út í sólskinið og lofa helgi þessarar stundar.

Getur þú skilið vald sem er of gott til að vera vald? Og fegurð of fagra til að sýnast fegurð?

Getur þú í draumum þínum heyrt rödd sem leynir styrk sínum og fegurð?

Hann kallaði á mig og ég fylgdi honum.

Það kvöld fór ég heim í hús föður míns til að sækja hinn kyrtilinn minn.

Og ég sagði við móður mína: „Jesús frá Nazaret vill fá mig í flokk sinn."

Og hún sagði: „Gakktu með honum, sonur minn, eins og bróðir þinn".

Og ég gekk við hlið hans.

Yndisleiki hans kallaði mig til fylgdar og hann leiddi mig til frelsis.

Ástin er gjöfull gestgjafi en hinum óboðnu er hús hennar aðeins hilling til að hæðast að.

Nú biður þú mig að útskýra kraftaverk Jesú.

Við erum birting tímans. Og öll birting tímans er kraftaverk. Lávarður okkar og meistari var miðpunktur okkar tíma.

Það var honum þó ekki að skapi að kunngjöra kraftaverk sín.

Ég hef heyrt hann segja við hinn lamaða: „Stattu upp og far þú til þíns heima, en segðu prestunum ekki að ég hafi læknað þig"

Og hugur Jesú var ekki bundinn hinum sjúku einum. Hann var líka hjá þeim sterku og tápmiklu. Hann leitaði allra manna og andi hans vitjaði þeirra.

Og þannig breytti andi hans hugum og hjörtum manna.

Þetta var kraftaverk, en fyrir lávarð okkar og meistara var þetta jafn auðvelt og sjálfsagt og að draga andann.

Og nú langar mig til að tala um aðra hluti.

Dag einn gengum við yfir engið, hann og ég. Við vorum báðir svangir og við komum að villtu eplatré.

Á grein þess héngu aðeins tvö epli. Og hann hristi greinina og eplin tvö féllu til jarðar.

Hann tók þau upp og fékk mér annað. Á hinu hélt hann í hendi sér.

Ég var svangur og át eplið, og ég át það fljótt.

Þá horfði ég á hann og ég sá að hann hélt enn á sínu.

Og hann gaf mér það og sagði: „Borðaðu þetta líka".

Og ég tók eplið, af því að ég var soltinn, og ég borðaði það.

Og þegar við gengum áfram horfði ég á hann.

En hvernig get ég sagt þér hvað ég sá?

Kyrrlát nótt full af fjarlægum ljósum.

Draumur handan alls sem við þekkjum.

Hádegissól yfir grænum haga þar sem lömb leika sér kringum hirði sinn.

Aftanró og friður þegar haldið er heim.

Síðar svefn og draumur.

Allt þetta sá ég í svip hans.

Hann hafði gefið mér bæði eplin. Og ég vissi að hann var jafn svangur og ég.

En ég veit nú að honum var nóg að hafa gefið mér þau. Hann nærðist af öðrum ávexti af öðru tré.

Mig langar til að segja þér fleira, en hvernig get ég það?

Þeir sem elska mikið eiga engin orð. Og þegar minningar bera menn ofurliði leita þeir hinna þöglu djúpa friðarins.

# Pétur

Einu sinni þegar við vorum í Kapernaum mælti lávarður okkar og meistari:

„Náungi þinn er annar helmingur þinn, handan við vegg skilningsleysisins. Þegar þú skilur hrynur þessi veggur.

Hver veit nema náungi þinn sé þitt betra sjálf sem klæðist þar öðrum líkama. Elskaðu því náunga þinn eins og sjálfan þig.

Einnig hann er birting hins hæsta sem þú ekki þekkir.

Náungi þinn er akur þar sem vor vona þinna gengur um í grænum klæðum. Og náungi þinn er vetur þar sem löngun þín birtist í draumi um hvíta tinda.

Náungi þinn er spegill þar sem þú sérð andlit þitt gert fagurt af gleði sem þú ekki þekkir sjálfur og af sorg sem ekki var þín.

Þú skalt elska náunga þinn eins og ég hef elskað ykkur“.

Þá spurði ég hann: „Hvernig get ég elskað náunga minn, sem elskar mig ekki, mann sem girnist eigur mínar og reynir að ræna þeim frá mér?“

Og hann svaraði: „Þegar þú plægir jörðina og þjónn þinn sáir í plógfarið, staldrar þú þá við til að reka burt spörfugl sem kroppar nokkur korn af akri þínum?

Gerir þú það, þá átt þú ekki skilið að eignast auð jarðarinnar“.

Þegar Jesús hafði þetta mælt, þá fyrirvarð ég mig og var þögull. En ég fann ekki til neins ótta því að hann brosti til mín.

## Skósmiður í Jerúsalem

Ég elskaði hann ekki en ég hataði hann ekki heldur. Ég hlýddi á hann, ekki til að heyra orð hans heldur hljóm raddarinnar. Hún féll mér vel í geð.

Það sem hann sagði var allt óljóst, en tónlistin í framsögn hans lét vel í eyrum. Ef aðrir hefðu ekki sagt mér frá kenningum hans, þá hefði ég ekki einu sinni vitað hvort hann var með Júdeu eða á móti henni.

# Súsanna í Nazaret, grannkona Maríu

Ég þekkti Maríu móður Jesú áður en hún varð eiginkona trésmiðsins Jósefs, þá vorum við báðar ungar og ógiftar.

Á þeim dögum sá hún sýnir og heyrði raddir og hún talaði stundum um himneska sendiboða sem komu til hennar í draumi.

Og fólkið í Nazaret veitti henni mikla eftirtekt og horfði íhugult á hana koma og fara. Og það var hlýja í augum þess því að María var tigin kona, fas hennar var fullt þokka og hún var fríð sýnum.

En sumir sögðu að henni væri stjórnað af anda því að hún fór sínar eigin leiðir og var öðrum óháð.

Mér fannst hún gömul á æskuárum. Í lífi hennar voru ávextirnir fullþroska s trax á blómatíð vorsins.

Hún fæddist og ólst upp í þorpi okkar. Samt var hún eins og framandi gestur að norðan. Í augnaráði hennar var alltaf undrun líkt og hún væri að sjá okkur í fyrsta skipti.

Og hún var jafn stolt og Mirjam, hin forna söguhetja, sem fór með bræðrum sínum frá Nílarfljóti út í eyðimörkina.

Og María varð heitbundin Jósef, trésmiðnum.

Þegar María varð þunguð og bar Jesú undir brjósti, fór hún stundum einförum milli fjallanna og kom heim að kvöldi með ástúð og þjáningu í augum.

Og þegar Jesús var fæddur, átti María að hafa sagt við móður sína. „Ég er eins og tré sem ekki hefur blómgast. Hlúðu að þessum ávexti". Marta, ljósmóðirin, heyrði hana segja þetta.

Eftir þrjá daga kom ég til hennar. Það var furða í svip hennar. Brjóst hennar bifuðust og armar hennar lukust um frumburð hennar eins og um perlu.

Við elskuðum öll barn Maríu og við fylgdumst með því. Frá þessari litlu veru stafaði hlýleik og friði.

Árin liðu og drengurinn óx, og hann var fullur af gleði og undarlegum hugmyndum.

Enginn vissi upp á hverju hann gat tekið. Það var eins og hann væri ekki af okkar kyni.

Hann lék við önnur börn fremur en þau við hann.

Þegar hann var tólf ára fylgdi hann eitt sinn blindum manni yfir á, vísaði honum til vegar og leiddi hann á örugga braut.

Blindi maðurinn var honum þakklátur og spurði: „Litli drengur, hver ert þú?"

Og hann svaraði: „Ég er ekki lítill drengur, ég er Jesús".

Og blindi maðurinn sagði: „Hver er faðir þinn?"

Og hann svaraði: „Guð er faðir minn".

Og blindi maðurinn hló og sagði: „Vel mælt, litli drengurinn minn. En hver er móðir þín?"

Og Jesús svaraði: „Ég er ekki litli drengurinn þinn. Og móðir mín er jörðin“.

Og blindi maðurinn sagði: „Þá hef ég verið leiddur af syni Guðs og jarðar yfir ána“.

Og Jesús svaraði: „Ég skal leiða þig hvert sem þú ferð og augu mín munu gæta þín“.

Og hann rann upp eins og tignarlegur pálmi í garði okkar.

Þegar hann var nítján ára var hann fagur sem hjörtur og augu hans voru sem hunang og full af undri dagsins.

Og varir hans voru þyrstar eins og hjörð eyðimerkurinnar sem leitar að vatni.

Hann gekk einn um landið og augu okkar fylgdu honum og augu allra meyja í Nazaret. En þær voru feimnar gagnvart honum.

Ást er alltaf feimin við fegurð. Samt mun ástin alltaf leita að fegurð.

Í fyllingu tímans fór hann að tala í musterinu og í byggðum Galíleu.

Og stundum fylgdi María honum til að

hlusta á orð hans og hlýða á rödd síns eigin hjarta. En þegar hann og vinir hans fóru til Jerúsalem, vildi hún ekki fara með þeim.

Við norðlendingar erum oft hæddir á götum höfuðborgarinnar, jafnvel þó að við komum færandi hendi og förnum í musterinu.

Og María var of stolt til að lúta sunnlendingum.

Og Jesús fór til framandi landa í austri og vestri. Við vissum aldrei hvert hann fór en við fylgdum honum í anda.

En María beið heimkomu hans og á hverju kvöldi horfði hún út á veginn sem hún hélt að hann kæmi eftir.

Samt sagði hún við okkur þegar hann kom: „Hann er of stór til að vera sonur minn, of vel máli farinn fyrir þögult hjarta mitt. Hvernig get ég kallað hann minn?“

Okkur fannst María ekki geta trúað því að láglendi fæddi af sér fjall. Í hreinleika hjarta síns vissi hún ekki að heiðarbrúnin er vegurinn upp á tindinn.

Hún þekkti hann. En vegna þess að Jesús var sonur hennar, þorði hún ekki að þekkja hann.

Og dag einn, þegar Jesús fór niður að vatninu til fundar við fiskimenn, sagði hún við mig: „Hvað er maðurinn annað en friðlaus vera sem vex upp af jörðinni? Og hvað er maðurinn annað en löngun sem vill hefja sig upp til stjarnanna?

Sonur minn er þrá. Hann er þrá okkar allra til að komast til stjarnanna.

Sagði ég sonur minn? Megi Guð fyrirgefa mér. Innst inni finnst mér ég samt vera móðir hans".

Mér er erfitt að segja fleira um Maríu og son hennar. En þó að ég fái kökk í hálsinn og orð mín líkist lömuðum manni sem gengur við hækjur, verð ég samt að segja það sem ég hef heyrt og séð.

Það var í byrjun árs, þegar rauðar anemónur blómstra í fjöllunum, að Jesús kallaði lærisveina sína til sín og sagði: „Komið með mér til Jerúsalem og verið vitni að slátrun páskalambsins".

Sama dag kom María að dyrum mínum og sagði: „Hann fer til hins helga staðar. Vilt þú fylgja honum og mér og hinum konunum?“

Og við fórum í langa ferð. Og við gengum á eftir Maríu og syni hennar, þar til við komum til Jerúsalem. Þar var okkur fagnað við borgarhliðið af hópi karlmanna og kvenna. Koma hans var kunn þeim sem elskuðu hann.

En sömu nótt hvarf hann úr borginni og karlmennirnir fóru með honum.

Við fengum að vita að hann hefði farið til Betaníu.

Og María var hjá okkur í gistihúsinu og beið þess að hann kæmi aftur.

Næsta fimmtudagskvöld var hann tekinn til fanga við borgarmúrinn og honum var varpað í fangelsi.

Þegar við heyrðum að hann væri fangi sagði María ekki orð. En í augum hennar sáum við að sorgin og gleðin, sem hana grunaði í Nazaret forðum, voru nú orðnar að veruleika.

Hún grét ekki. Hún gekk aðeins um

meðal okkar eins og skuggi af móður sem ekki vill syrgja horfinn son.

Við sátum á gólfinu en hún stóð uppi og gekk fram og aftur um salinn.

Öðru hvoru nam hún staðar við gluggann og horfði í austur. Og hún renndi fingrum beggja handa gegnum hár sitt.

Þegar birti stóð hún enn eins og stakur gunnfáni sem allir höfðu yfirgefið.

Við grétum því að við vissum hvað þessi dagur færði syni hennar. En hún grét ekki þó að hún vissi líka hvað beið hans. Fætur hennar voru styrkir og hún var sterk eins og gamall stofn og augu hennar voru eins og himinninn, opin og djörf.

Hefur þú heyrt þröst syngja meðan hreiður hans brennur?

Hefur þú séð sorg konu sem er of þung fyrir tár, eða sært hjarta sem rís upp yfir eigin þjáningar?

Þú hefur ekki séð þá konu því að þú hefur ekki staðið í návist Maríu. Og þú hefur ekki verið yfirskyggður af hinni ósýnilegu móður.

Á þessari hljóðu stund, þegar daufur hófadynur þagnarinnar fór um andvaka sál, kom Jóhannes, hinn ungi sonur Zebedeusar, til okkar og sagði: „María móðir. Jesús er lagður af stað. Komið, við skulum fylgja honum".

Og María lagði hönd sína á herðar Jóhannesar og þau gengu út, og við fylgdum þeim.

Þegar við komum að Turni Davíðs, sáum við Jesú bera kross sinn. Og mikill mannfjöldi hafði safnast í kringum hann.

Þarna voru líka tveir aðrir sem báru kross sinn.

María gekk með okkur fyrir aftan son sinn. Hún gekk með reist höfuð og föstum skrefum.

Og fyrir aftan hana gengu bæði Zíon og Róm, já allur heimurinn til að hefna sín á þessum eina frjálsa manni.

Þegar við komum upp á hæðina var honum lyft hátt upp á krossinn.

Og ég leit á Maríu. Hún bar ekki svip

syrgjandi konu. Það var andlit hinnar frjósömu jarðar sem stöðugt fæðir af sér líf og tekur það til sín.

Við sáum í augum hennar að hún minntist bernsku hans og hún sagði: „Sonur minn sem ekki ert sonur minn, maður sem ég forðum fæddi, ég gleðst yfir mætti þínum. Hver einasti blóðdropi sem drýpur af höndum þínum verður að lífslind heillar þjóðar.

Þú deyrð í þessum stormi, eins og hjarta mitt eitt sinn dó inn í sólarlagið, og ég skal ekki syrgja“.

Á þessari stund langaði mig til að hylja andlit mitt í skikkju minni og flýja burtu norður í land. En þá heyrði ég Maríu segja: „Sonur minn, sem ekki ert sonur minn, hvað hefur þú sagt sem hefur gert manninn sem er þér á hægri hönd svona glaðan í þjáningu hans? Skuggi dauðans, sem hvíldi á andliti hans, hefur breyst í ljós og hann getur ekki af þér litið.

Nú brosir þú til mín og vegna þess að þú brosir veit ég að þú hefur sigrað.“

Og Jesús leit á móður sína og sagði: „María, vertu frá þessari stundu móðir Jóhannesar“.

Og við Jóhannes sagði hann: „Vertu þessari konu góður sonur. Far þú heim til hennar og láttu skugga þinn falla yfir þann þröskuld sem ég eitt sinn stóð við. Ger þetta í minningu mína“.

Og María lyfti hægri hendi sinni í átt til hans og hún var eins og tré með einni grein. Og aftur hrópaði hún: „Sonur minn, sem ekki ert sonur minn, ef þetta er frá Guði þá bið ég að Guð gefi okkur þolinmæði og skilning. En ef þetta er frá mönnum, megi þá Guð um eilífð fyrirgefa þeim.

Ef þetta er frá Guði, þá skal snær Líbanons vera líkklæði þitt, en ef þetta er aðeins frá þessum prestum og hermönnum, þá kem ég með þetta klæði til að hylja nekt þína.

Sonur minn, sem ekki ert sonur minn, það sem Guð reisir mun aldrei falla. Og það sem menn vilja fella skal standa, þó að það sé þeim ekki sýnilegt“.

Á sömu stund gaf himinninn hann jörðinni. Eitt ákall og andvarp.

Og María gaf hann mönnunum: Sár og smyrsl á sárið.

Og María sagði: „Sjá, nú er hann farinn. Stríðinu er lokið. Stjarnan er kviknuð. Skipið er í höfn. Hann, sem eitt sinn hvíldi við hjarta mitt, er nú alfrjáls á himnum“.

Og við gengum til hennar og hún sagði við okkur: „Jafnvel í dauðanum brosir hann. Hann hefur sigrað. Þrátt fyrir allt varð ég móðir sigurvegarans“.

Og María studdi sig við Jóhannes, lærisveininn unga, og fór aftur til Jerúsalem.

Og hún var kona sem fundið hafði fyllingu lífsins.

Og þegar ég kom að borgarhliðinu, starði ég á andlit hennar og fylltist undrun því að þennan dag bar höfuð Jesú hæst allra manna, en ég sá að reisn hennar var jafn mikil.

Og allt þetta gerðist um vorið.

Og nú er komið haust. Og María móðir Jesú er komin heim aftur og hún er ein.

Fyrir tveimur vikum varð hjartað eins og steinn í brjósti mér vegna þess að sonur minn hafði farið frá mér og ráðið sig á skip í Týrus. Hann vildi verða farmaður.

Hann sagði að hann sneri ekki aftur.

Og kvöld eitt fór ég að finna Maríu.

Þegar ég kom inn til hennar sat hún við vef sinn en hafðist ekkert að. Hún horfði yfir Nazaret til himins.

Ég sagði: „Heil sért þú, María".

Hún tók hönd mína og sagði: „Komdu og sestu hjá mér. Við skulum horfa á kvöldsólina úthella blóði sínu yfir fjöllin".

Og ég sat við hlið hennar á legubekknum og við litum út um gluggann í vestur.

Skömmu síðar sagði María: „Ég er að hugsa um hver það sé sem krossfestir sólina þessa aftanstund".

Þá sagði ég: „Ég kom til þín til að leita mér huggunar. Sonur minn hefur gerst farmaður og er horfinn frá mér og ég er alein hinum megin vegarins".

María svaraði: „Ég vil gjarnan veita þér huggun en hvernig er það hægt?"

Og ég sagði: „Mér nægir að þú talir um son þinn, það mundi hugga mig“.

María brosti og hún lagði handlegg sinn um herðar mér og sagði: „Ég skal tala um hann. Það sem huggar þig er einnig huggun mín“.

Því næst talaði hún um Jesú og hún talaði lengi um allt eins og það var í upphafi.

Og mér virtist af því sem hún sagði að hún vildi ekki gera neinn mun á syni sínum og syni mínum.

Hún sagði við mig: „Sonur minn er líka farmaður. Hvers vegna treystir þú ekki öldunum fyrir syni þínum, alveg eins og ég treysti þeim fyrir syni mínum?

Konur munu alltaf kveikja nýtt líf og vera vagga þess, aldrei gröfin.

Við deyjum til að logi geti kviknað af loga og fingur okkar vefa framtíðinni klæði sem við aldrei berum.

Og við köstum neti fyrir þann fisk sem aldrei kemur á okkar borð.

Og þetta er tregi okkar, og þetta er okkar gleði“.

Þannig talaði María við mig.

Og ég fór frá henni og kom heim í hús mitt.

Og þó að dagsbirtu væri brugðið settist ég við vefstól minn og óf nýtt klæði.

# Jósef, kallaður hinn réttláti

Sagt er að hann hafi verið lágstéttarmaður, fátækur afkomandi umkomulítillar ættar, óvinsæll og illa siðaður maður.

Sagt er að aðeins vindurinn hafi greitt hár hans og regnið eitt ráðið hönnun klæða hans.

Menn sögðu að hann væri sjúkur á geði og illir andar legðu honum orð í munn.

En sjá, þessi fyrirlitni maður vakti heiminn af svefni sínum og kall hans hljóðnar aldrei.

Hann söng það ljóð sem lagt verður aldrei í fjötra. Það lifir frá kynslóð til kynslóðar og það skal rísa upp gegnum alla himna, og það ljóð man þær varir sem gáfu því líf og eyrun sem voru vagga þess.

Hann var gestur. Já, hann var framandi

gestur, förumaður á leið í helgidóm, gestur sem knúði dyra hjá okkur, gestur frá fjarlægu landi.

Og vegna þess að við vildum ekki veita honum viðtöku, þá hefur hann horfið aftur til síns heimalands.

# Filippus

Þegar hann sem við öll elskuðum dó, þá dó allur heimurinn með honum og allt varð grátt og þögult. Það dimmdi yfir í austri og óveður geisaði um allt landið. Augu himinsins opnuðust og luktust aftur og regnið fossaði niður og bar burtu blóðið sem rann úr höndum hans og fótum.

Einnig ég dó. En í djúpi gleymskunnar heyrði ég hann tala og segja: „Faðir, fyrirgef þeim því að þeir vita ekki hvað þeir gera“.

Og rödd hans leitaði að drukknandi anda mínum og flutti hann að landi.

Og ég opnaði augun og ég sá hvítan líkama hans bera við himin, og orðin sem ég heyrði breyttu mér í nýjan mann. Og harmur minn var horfinn.

Hver hryggist yfir vatni sem sviptir af sér þokunni, eða fjalli sem laugast sólbrosum?

Hafa slík orð nokkru sinni komið frá helsærðu mannshjarta?

Hvaða dómari annar meðal manna hefur náðað dómara sína?

Og hefur ástin nokkru sinni gengið á hólm við hatrið með jafn ósigrandi mætti?

Hafa menn nokkru sinni verið kallaðir til að berjast undir merkjum góðleikans á þennan hátt í þessum heimi?

Var það áður vitað að hinn líflátni væri fullur samúðar með böðlinum? Eða að himintungl gengi við hæfi moldvörpu?

Fyrr mun tíminn líða undir lok en máttur þessara orða þrýtur: *„Faðir, fyrirgef þeim því að þeir vita ekki hvað þeir gera“*.

Og þó að við endurfæðumst ótal sinnum, þá munum við, þú og ég, varðveita þessi orð.

Og nú vildi ég halda heim og bíða við dyr hans með bæn á vörum í von um nýja veröld.

# Bírbara frá Jammúní

Jesús sýndi hinum skilningsdaufu og seinþroska þolinmæði, eins og vetur sem bíður vorsins.

Hann haggaðist ekki fremur en fjall í vindum.

Hann svaraði illgjörnum spurningum óvina af mildi.

Oft lét hann litlu nöldri ósvarað, því að hann var sterkur og sterkir menn eru oft umburðarlyndir.

En Jesús var einnig óþolinmóður.

Hann hlífði ekki hræsnurum.

Hann beygði sig ekki fyrir hinum slægvitru og ekki fyrir þrætuspekingum.

Og ekki vildi hann láta aðra stjórna sér.

Hann var andstæður þeim sem ekki trúðu á ljósið vegna þess að þeir lifðu sjálfir í

skugga. Hann var óþolinmóður við þá sem leituðu að teikni á himnum en ekki í sínu eigin hjarta.

Og óþolinmóður var hann einnig við þá sem vega vildu og mæla nóttina og daginn, áður en þeir þorðu að trúa aftanstund og dögun fyrir draumum sínum.

Jesús var þolinmóður.

Og samt var hann óþolinmóðastur allra manna.

Hann vildi láta þig vefa klæðið og gefa þér langan tíma að ljúka því verki.

En úr mynstrinu leyfði hann engum að taka einn einasta þráð.

# Kona Pílatusar ræðir við rómverska vinkonu

Ég gekk með hirðmeyjum mínum í skógarlundum fyrir utan Jerúsalem þegar ég sá hann ásamt nokkrum karlmönnum og konum sem sátu í kringum hann. Og hann talaði til þeirra á máli sem ég skildi aðeins til hálfs.

En það þarf engin orð til að lýsa ljóssúlu eða kristalfjalli. Hjartað finnur það sem ekki er sagt og eyrun ekki heyra.

Hann talaði við vini sína um ástina og valdið. Ég veit að hann ræddi um ástina því að í rödd hans var söngur. Og ég veit að hann ræddi um valdið vegna þess að í fasi hans voru fylkingar hermanna. Og hann var mildur, en samt gæti jafnvel eiginmaður minn aldrei talað af slíku valdi.

Þegar hann sá mig ganga hjá, hætti hann

um stund að tala og horfði á mig með hlýlegu augnaráði. Og ég fann til auðmýktar. Í hjarta mínu vissi ég að ég hafði fundið alnánd Guðs.

Upp frá þessum degi kom ímynd hans inn til mín þegar ég var ein og vildi ekki taka á móti neinum. Augu hans leituðu sálar minnar þegar mín eigin augu voru lokuð. Og rödd hans réð ríkjum í kyrrð næturinnar.

Ég verð alltaf bundin honum. Í sársauka mínum er friður og frelsi í tárum mínum.

Elskulega vinkona mín, þú hefur aldrei séð þennan mann og þú munt aldrei sjá hann.

Hann er horfinn út fyrir það sem augu okkar sjá, samt er hann nálægari mér en nokkur annar maður.

# Maður fyrir utan Jerúsalem

Júdas kom heim til mín þetta föstudagskvöld fyrir páska. Og hann barði harkalega að dyrum.

Þegar hann gekk inn horfði ég í andlit hans og það var öskugrátt. Hendur hans skulfu eins og ösp í vindi og klæði hans voru blaut eins og hann kæmi upp úr ánni. Því að þetta kvöld var ofsaveður úti.

Hann horfði á mig blóðhlaupnum augum sem lágu djúpt eins og dimmir hellar.

Og hann sagði: „Ég hef framselt Jesú frá Nazaret í hendur óvina hans og óvina minna".

Síðan neri Júdas saman höndum sínum og sagði: „Jesús sagði okkur að hann mundi sigra alla óvini sína og okkar þjóðar. Og ég trúði og ég fylgdi honum.

Þegar hann kallaði okkur fyrst til sín, þá lofaði hann okkur miklu og víðlendu ríki, og í trausti þess báðum við um háa stöðu við hirð hans.

Við sáum okkur í anda sem þjóðhöfðingja sem gerðu við rómverja það sem þeir gerðu við okkur. Og Jesús hefur sagt margt um ríki sitt og ég hélt að hann hefði gert mig að hershöfðingja yfir stríðsvögnum sínum og foringja yfir hetjum sínum. Og ég fylgdi honum af fúsum vilja. En ég komst að því að það var ekki konungsríki sem Jesús sóttist eftir. Hann ætlaði ekki heldur að leysa okkur undan oki rómverja. Ríki hans var heimur andans. Ég heyrði hann ræða um ást og samúð og fyrirgefningu. Og konur sem urðu á leið okkar hlustuðu á þetta af hrifningu. En ég varð vonsvikinn og hjarta mitt forhertist.

Sá konungur Júdeu sem okkur var spáð virtist ekki annað en flautuleikari til huggunar förumönnum og flækingum.

Ég elskaði hann eins og aðrir af minni ættkvísl. Ég sá í honum von um frelsi undan

oki framandi þjóðar. En þegar hann vildi hvorki með orði né athöfn frelsa okkur undan þessu oki og sagði okkur jafnvel að gjalda keisaranum það sem keisarans var, þá fylltist ég örvæntingu og vonir mínar urðu að engu. Og ég sagði: „Sá sem eyðir vonum mínum skal sjálfur veginn, því að vonir mínar og hugsjónir eru dýrmætari en líf hvers sem er“.

Þá gnísti Júdas tönnum og hann laut höfði. Og þegar hann talaði aftur sagði hann: „Ég sveik hann og hann var krossfestur á þessum degi . . . Samt dó hann eins og konungur þegar hann dó á krossinum. Hann dó í storminum eins og sá sem frelsar deyr, eins og hinir miklu andar sem lifa handan grafar.

Og í dauðanum var hann fullur mildi og náðar. Og hjarta hans var fullt af meðaumkun. Meira að segja með mér sem hafði svikið hann“.

Og ég sagði: „Júdas. Yfirsjón þín er stór“.

Og Júdas svaraði: „Hann dó eins og kon-

ungur. Hvers vegna lifði hann ekki eins og konungur?"

Og ég sagði aftur: „Þú hefur unnið illt verk".

Og hann settist þarna, niður á bekkinn, og hann haggaðist ekki fremur en steinn.

En ég gekk fram og aftur um gólfið og sagði einu sinni enn: „Þú hefur gert þig sekan um mikla synd".

En Júdas sagði ekki neitt. Hann var þögull eins og jörðin.

Og eftir nokkra stund reis hann upp og sneri sér að mér og hann virtist hærri. Og þegar hann talaði var rödd hans brostin eins og brotinn leir. Og hann sagði: „Synd var mér ekki í huga. Strax þessa nótt mun ég fara og leita að ríki hans og ég skal standa í návist hans og biðja hann fyrirgefningar.

Hann dó sem konungur og ég mun deyja sem afbrotamaður. En í hjarta mér veit ég að hann mun fyrirgefa mér".

Þegar hann hafði þetta sagt, vafði hann um sig blautri skikkjunni og hann sagði:

„Það var gott að ég kom til þín í kvöld, þó að ég hafi verið þér til vandræða. Vilt þú líka fyrirgefa mér?

Seg þú sonum þínum og sonasonum: Júdas Ískaríot framseldi Jesú frá Nazaret óvinum hans, vegna þess að hann hélt að Jesús væri óvinur síns eigin ættstofns.

Og seg þeim einnig að sama dag og honum varð á þessi mikla villa, hafi hann fylgt konunginum að þrepum hásætis hans, til að framselja sína eigin sál og verða dæmdur.

Ég mun segja honum að blóð mitt hafi einnig verið óþreyjufullt að hverfa til jarðar og lamaður andi minn leitar frelsis“.

Þá hallaði Júdas höfði sínu að veggnum og hrópaði: „Guð minn, enginn má nefna þitt nafn, sem við óttumst, fyrr en engill dauðans hefur snert varir hans, en samt spyr ég: Hvers vegna léstu mig brenna í eldi sem engum lýsir?

Hvers vegna gafst þú Galíleanum þrá til lands sem enginn þekkir en íþyngdir mér

með ósk sem er bundin ættjörð minni og einni þjóð?

Og hver er þessi maður, Júdas, með hendur flekkaðar blóði?

Ljáðu mér hönd til að henda honum burtu sem slitinni flík.

Hjálpa mér að gera þetta í nótt.

Og lát mig aftur standa utan þessara veggja.

Ég er þreyttur á þessu ófleyga frelsi. Fremur vil ég stærra fangelsi.

Ég vil falla sem flóð af tárum út í úfið haf. Ég legg í þínar hendur líf mitt, fremur en berja að mínum eigin dyrum“.

Þannig talaði Júdas. Hann opnaði dyrnar og hvarf aftur út í óveðrið.

Þremur dögum síðar kom ég til Jerúsalem og heyrði um allt sem þar hafði gerst. Og ég heyrði líka að Júdas hefði hent sér fram af háum kletti.

Lengi hef ég ígrundað þetta allt og ég skil Júdas. Hann lauk ætlunarverki síns skammvinna lífs, sem lá eins og þoka yfir landi,

undirokuðu af erlendri þjóð, þegar hinn mikli spámaður reis upp til hæða sinna.

Annar vildi konungsríki þar sem hann sjálfur yrði erfðaprins.

Hinn vildi konungsríki sem allir menn áttu að erfa.

## Sarkis, gamall grískur hirðir, kallaður hinn vitfirrti

Í draumi sá ég Jesú og guð minn, Pan, sitja saman inni í miðjum skógi.

Þeir glöddust báðir yfir samræðum sínum og niður lækjarins blandaðist saman við hlátur þeirra. Og hlátur Jesú var ennþá glaðlegri. Og þeir ræddu lengi saman. Pan ræddi um jörðina og um hennar leyndu dóma, og um systur sínar og bræður sem eru með horn og hófa. Og um drauma. Og hann ræddi um rætur og þeirra djúpu brunna, og um ramman safa jarðar sem rís og vaknar og breytist í sumarsöng.

Og Jesús talaði um hinn unga sprota sem vaknar í skóginum og breytist í blóm og ávöxt, og um fræið sem bíður nýrra tíma. Og hann talaði um fugla á fjarlægum himni og söng þeirra í æðri heimi.

Og hann talaði um hvítar hindur á eyðisöndum, þar sem Guð gætir þeirra.

Og Pan gladdist yfir orðum hins nýja guðs og nasavængir hans titruðu.

Og í sama draumi sá ég Pan og Jesú sitja hljóða í grænni þögn skógarins.

Og þá tók Pan upp flautu sína og lék á hana fyrir Jesú.

Það fór skjálfti um skóginn og hamrabjörgin hristust og ég var gripinn ótta.

Og Jesús sagði: „Gott bróðir. List þín hefur hæðir og skóga á valdi sínu“.

Þá rétti Pan Jesú flautuna og sagði: „Leik þú núna. Nú er röðin komin að þér“.

Og Jesús sagði: „Flauta þín er of viðamikil fyrir minn munn. Ég er með þessa hérna“.

Og hann tók upp flautu sína og lék á hana.

Og ég heyrði regnið falla á laufin og söng lækjanna í hlíðum fjallanna og snjókornin falla á fjallahnjúka. Og hljómfall hjarta míns, sem eitt sinn var hljómfall vindanna, varð það að nýju. Og allar öldur liðinnar ævi

féllu að nýju að ströndum mínum, og ég varð aftur Sarkis, hirðirinn.

Og flauta Jesú varð flauta allra hirða sem kalla á hjörð sína.

Og Pan sagði við Jesú: „Æska þín er nær flautunni en elli mín. Og fyrir löngu hef ég í þögn minni heyrt söng þinn og nafni þínu hvíslað.

Nafn þitt er hljómlist af hæðum. Remmu jarðar mun hún breyta í sætan safa. Og hún mun óma fagurlega í hófadyn milli fjalla.

Og hún er mér ekki framandi. Þó að faðir minn kallaði mig öðru nafni, þá hefur nú flauta þín látið mig muna mitt rétta nafn.

Og nú skulum við leika saman á flauturnar".

Og þeir léku saman.

Og tónar þeirra hristu himin og jörð, og allar lífverur fylltust ótta.

Ég heyrði öskur dýra og hungur skógarins. Og ég heyrði hróp hins einmana manns og ásökun þeirra sem vita ekki hvað þeir vilja.

Ég heyrði andvörp ungmeyjanna sem

leita elskhuga síns og þungan andardrátt hins lánlausa veiðimanns sem leitar bráðar.

Og síðar töluðu tónar þeirra um frið og himinn og jörð sungu það stef þeirra saman.

Allt þetta heyrði ég og allt þetta sá ég í draumi.

# Annas, æðsti prestur

Hann var kominn út af alþýðufólki og hann var ræningi, uppskafningur og gortari. Honum fylgdu aðeins þeir óhreinu. Og þeir sem ekki hlutu neinn arf. Og þess vegna fór hann veg allra auðnuleysingja og lögbrjóta.

Hann lék sér að okkur og lögum okkar. Hann hæddist að heiðri okkar og hló að mannvirðingum okkar. Hann sagðist jafnvel ætla að eyða musteri okkar og vanhelga helga staði. Hann var blygðunarlaus og fyrir það þoldi hann smánarlegan dauða.

Hann var heiðingi úr Galíleu, norðan úr landi þar sem menn studdu enn guðinn Adonis og gyðjuna Astarte gegn Ísrael og Guði Ísraels.

Hann, sem gat ekki skammlaust talað tungu spámanna okkar, talaði með þrumu-

raust sem ærði okkur þegar hann talaði mállýsku hinnar ættlausu alþýðu.

Hvað annað gat ég gert en dæmt hann til dauða?

Ber mér ekki að vernda musteri Guðs? Er ég ekki vörður laganna? Gat ég bent á hann með rósemd og sagt: „Hann er vitfirringur meðal vitfirringa. Leyfum honum að syngja þennan hugarburð sinn og grafa sína eigin gröf. Vitfirrtir menn og grillufangarar og þeir sem haldnir eru illum anda munu hverfa sjálfkrafa af vegi Ísraels."

Gat ég látið sem ég heyrði ekki þegar hann kallaði okkur lygara, hræsnara, úlfa, nöðrur og nöðrukyn?

Nei, við þessu gat ég ekki þagað því að hann var enginn vitfirringur. Hann var í góðu jafnvægi og átti sér innri ró. Og ásakanir hans og ögranir voru bornar fram af þrótti og þunga.

Fyrir það lét ég krossfesta hann og það var öðrum til viðvörunar sem haldnir eru illri áráttu.

Ég veit vel að sumir ásaka mig fyrir þetta,

jafnvel sumir hinna elstu í öldungaráðinu. En ég vissi þá, og ég veit enn, að betra er að einn deyi fyrir fjöldann en að fjöldinn sé leiddur á villigötur af einum manni.

Júdea var sigruð af óvini sem kom að utan. Ég mun sjá til þess að Júdea verði ekki sigruð aftur af óvini sem kemur að innan.

Enginn maður úr þessu óguðlega Norðurlandi skal fá að snerta hið helgasta í helgidómi okkar. Og ég mun sjá til þess að skuggi slíks manns falli aldrei á sáttmálsörk okkar og Guðs.

## Grannkona Maríu

Á fertugasta degi eftir dauða hans komu allar konur úr nágrenninu heim til Maríu til þess að hugga hana og syngja saknaðarljóð.

Og ein kvennanna söng þetta ljóð:

Vor mitt, hvert fórst þú, ó hvert?
Til hvaða vídda hvarf ilmur þinn?
Um hvaða lönd leggur þú leið?
Til hvaða himins munt þú höfði lyfta
og hverjum hug þinn segja?

Þessir dalir munu visnir verða,
og þurrir og harðir akrar þeirra og engi.
Og undir sólu sölna allur gróður.
Garðar munu engin aldin bera.

Og engar þrúgur vaxa á þessum reinum.
Hér þorsta okkar ekki verður svalað.
Þinn horfni ilmur er samt þráður draum-
ur..

Hvert fórst þú burtu, fyrsta vorsins blóm?
Vitjar þú okkar aldrei framar?
Hvert er jasmínan hvíta horfin?
Og alparósin, sem var við okkar veg
og fræddi okkur öll um djúpar rætur
og anda þann sem upp til himins rís?

Hvert fórst þú, Jesús, ó hvert,
sonur Maríu, minnar vinu,
og leikbróðir míns litla sonar?
Hvert fórst þú, okkar fyrsta vor?
Og vitjaðir hvaða vídda?

Mun til okkar aftur
kærleikur þinn koma,
og náðarregn
að nýju á land mitt falla?

# Ahas, veitingamaðurinn

Vel man ég er ég sá Jesú frá Nazaret í síðasta sinni. Þann fimmtudag um hádegið hafði Júdas komið til mín og beðið mig að búa Jesú og vinum hans veislu.

Hann fékk mér tvo silfurpeninga og sagði: „Kauptu til veislunnar allt það sem þú þarft“.

Og kona mín sagði, þegar hann var farinn: „Fyrir okkur er þetta mikil sæmd“. Því að Jesús var orðinn spámaður sem gert hafði mörg kraftaverk.

Hann kom í rökkrinu í fylgd með félögum sínum og þeir tóku sér sæti og voru hljóðir.

Þeir höfðu líka komið, bæði í fyrra og árið þar áður, og verið þá glaðir og reifir. Þeir brutu þá brauðið og drukku vínið og sungu

okkar gömlu söngva. Og Jesús talaði við þá til miðnættis.

Eftir það fóru þeir frá honum úr efri stofunni og lögðust til svefns í öðrum herbergjum. Því að eftir miðnætti vildi Jesús vera einn.

Og hann fór ekki að sofa. Ég heyrði fótatak hans þar sem ég lá í hvílu minni.

En að þessu sinni voru hvorki hann né félagar hans hamingjusamir.

Kona mín hafði matreitt fiska úr Genesaretvatni og fasana frá Horon, fyllta með rís og granateplakjörnum, og ég færði þeim könnu af kýprusvíni.

Eftir það fór ég frá þeim, því að ég fann að þeir vildu vera einir.

Þeir biðu fram í myrkur, og þá fóru þeir allir úr efri salnum, en neðst í stiganum nam Jesús staðar. Og hann horfði á mig og konu mína, og hann lagði hönd sína á höfuð dóttur minnar og sagði: „Ég býð ykkur öllum góða nótt. Við munum koma aftur í efri salinn, en þá munum við ekki yfirgefa ykkur svo snemma nætur. Við munum vera

þar um kyrrt þar til sól rís yfir sjóndeildarhringinn.

Eftir skamma stund komum við aftur að biðja um meira af brauði og víni. Þú og kona þín hafið verið okkur góðir gestgjafar og við munum minnast ykkar þegar við komum til okkar bústaða og setjumst kringum okkar eigið borð".

Og ég sagði: „Herra, það var okkur heiður að þjóna þér. Aðrir eigendur veitingahúsa öfunda okkur vegna veru þinnar og á markaðstorginu brosi ég til þeirra stoltur. Og stundum á ég jafnvel til að gretta mig".

Og hann sagði: „Allir veitingamenn eiga að vera stoltir af þjónustu sinni. Því að sá, sem veitir brauð og vín, er bróðir þess sem hirðir akurinn og uppsker drúfurnar. Og þið sýnið öllum vináttu. Og þið veitið af rausn, jafnvel þeim sem ekki koma með annað en hungur og þorsta".

Og hann sneri sér til Júdasar Ískaríots, sem gætti fjármuna þeirra, og hann sagði: „Fáðu mér tvo sikla".

Og Júdas gaf honum tvo sikla og sagði:

„Þetta eru síðustu silfurpeningarnir í pyngju minni“.

Jesús horfði á hann og sagði: „Fljótt, allt of fljótt, verður pyngja þín full af silfri“.

Þá lagði hann peningana tvo í lófa mér og sagði: „Kauptu fyrir þetta silkilinda handa dóttur þinni, og bið þú hana að klæðast honum á páskahátíðinni til minningar um mig“.

Og aftur horfði hann í andlit dóttur minnar, og hann beygði sig niður og kyssti hana á ennið. Og síðan sagði hann aftur: „Ég býð ykkur öllum góða nótt“.

Og hann gekk á braut.

Mér er sagt að það sem hann sagði hafi verið fært í letur af einum vina hans, en ég endursegi þetta eins og ég heyrði það af hans eigin vörum.

Aldrei gleymi ég hljómnum í rödd hans þegar hann sagði þessi orð: „Ég býð ykkur öllum góða nótt“.

Ef þú vilt fræðast meira um hann, spurðu þá dóttur mína. Nú er hún fullorðin kona, en hún geymir vel minningar bernsku sinnar. Og henni er léttara um mál en mér.

# Barabbas

Þeir létu mig lausan en völdu hann. Það var hann sem reis en ég sem féll.

Þeir héldu honum eftir sem sakamanni og páskafórn.

Ég var leystur úr hlekkjum og gekk með fjöldanum sem fylgdi honum. En ég var lifandi maður á leið til eigin grafar.

Ég hefði átt að flýja út í eyðimörkina þar sem smánin brennur á sólheitum sandi.

Samt gekk ég með þeim sem höfðu valið hann til að bera sekt mína.

Þegar þeir negldu hann á krossinn stóð ég hjá.

Ég sá og ég heyrði, samt virtist mér ég standa fyrir utan líkama minn.

Þjófurinn sem var krossfestur honum til

hægri handar sagði: „Blæðir þér með mér, jafnvel þér, Jesús frá Nazaret?“

Og Jesús svaraði og sagði: „Ef ekki væru þessir naglar, sem festa hendur mínar, mundi ég þrýsta hönd þína.

Við erum krossfestir saman. Þeir hefðu mátt reisa kross þinn nær mínum“.

Þá leit hann niður og horfði á móður sína og ungan mann sem stóð hjá henni.

Hann sagði: „Móðir, þetta er sonur þinn sem stendur við hlið þér. Hann mun bera þessa blóðdropa til Norðurlandsins“.

Og þegar hann heyrði að konurnar frá Galíleu grétu, sagði hann: „Sjá, þær gráta og mig þyrstir.

Ekki næ ég til tára þeirra.

Og ekki vil ég drekka beiska drykki til að svala þessum þorsta“.

Og hann horfði til himins og sagði:

„Faðir, því hefur þú yfirgefið okkur?“ Og síðan sagði hann, fullur meðaumkunar: „Faðir, fyrirgef þeim því þeir vita ekki hvað þeir gera“.

Og þegar hann mælti þessi orð, fannst

mér sem allir menn lægju í duftinu og bæðu Guð að fyrirgefa sér að hafa krossfest þennan eina mann.

Og aftur sagði hann hárri röddu: „Faðir, í þínar hendur fel ég anda minn“.

Og að síðustu lyfti hann höfði sínu og sagði: „Það er fullkomnað“.

Og hann lagði augun aftur.

Þá lýsti elding upp myrkur næturinnar og geigvænleg þruma rauf þögnina.

Ég veit nú að þeir sem tóku hann af lífi í stað mín, hafa valdið mér endalausri þjáningu.

Hann var aðeins skamma stund á krossinum.

En ég mun verða þar alla mína ævidaga.

# Kládíus, rómverskur hundraðshöfðingi

Eftir að hann var handtekinn var mér falið að gæta hans. Og Pontíus Pílatus skipaði mér að hafa hann í haldi til næsta morguns.

Hermenn mínir leiddu hann burt sem fanga og hann hlýddi þeim.

Um miðnætti fór ég frá konu og börnum mínum til herbúðanna. Það var siður minn að fylgjast með framferði hermanna minna í Jerúsalem og þessa nótt fór ég í herbúðirnar þar sem hann var hafður í haldi.

Hermenn mínir og nokkrir ungir gyðingar hæddu hann þar og spottuðu. Þeir höfðu svipt hann klæðum að beltisstað og sett þyrnikórónu á höfuð honum.

Hann var bundinn við súlu og þeir dönsuðu og hrópuðu í kringum hann.

Og þeir höfðu fengið honum reyrstrá til að halda í hendi sér.

Þegar ég kom til þeirra þá hrópaði einhver: „Hér getur þú, hershöfðingi, séð konung gyðinga“.

Ég stóð frammi fyrir honum og horfði á hann og ég skammaðist mín. Ég vissi ekki hvers vegna.

Ég hafði barist í Frakklandi og á Spáni og horfst í augu við dauðann með mönnum mínum. Samt hafði ég hvergi fundið til ótta og aldrei verið hugleysingi. En þegar ég stóð frammi fyrir þessum manni og hann horfði á mig, þá missti ég kjarkinn. Það var eins og varir mínar væru innsiglaðar og ég gat ekki komið upp nokkru orði.

Ég yfirgaf herbúðirnar í skyndi.

Þetta gerðist fyrir þrjátíu árum. Synir mínir, sem þá voru börn, eru nú fullorðnir menn. Og þeir þjóna keisaranum og Rómaborg.

En oft þegar ég hef leiðbeint þeim hef ég talað um hann, mann sem í blóma lífsins

stendur í skugga dauðans og augu hans full af samúð með böðlum hans.

Og nú er ég gamall. Ég hef lifað lífinu til fulls. Og ég er fullviss um að hvorki Pompejus né Cesar voru eins miklir hershöfðingjar og þessi maður frá Galíleu.

Því að eftir að hann var líflátinn án nokkurs viðnáms, hefur heill her sprottið upp úr jörðinni til þess að berjast undir merkjum hans . . . Og þeir þjóna honum betur, þótt hann sé farinn, en jafnvel Pompejusi og Cesari var þjónað meðan þeir lifðu.

# Jakob bróðir Drottins

Þúsund sinnum hefur minningin um þessa nótt vitjað mín. Og ég veit að hún á enn eftir að vitja mín þúsund sinnum.

Jörðin mun fyrr gleyma plógförunum sem rist voru í brjóst hennar, og konan þjáningu og gleði fæðingarinnar en ég gleymi þessari nóttu.

Síðla dags komum við að borgarmúrum Jerúsalem og Jesús sagði: „Við skulum fara inn í borgina og neyta kvöldmáltíðar í gistihúsinu“.

Það var komið myrkur þegar við náðum til gistihússins og við vorum orðnir svangir. Eigandi gistihússins fagnaði komu okkar og vísaði okkur upp í efri salinn.

Og Jesús bað okkur að taka sæti við

borðið en hann settist ekki og augu hans hvíldu á okkur.

Og hann talaði til gestgjafans og sagði: „Færðu mér þvottaskál og könnu, fulla af vatni, og handklæði".

Og hann leit á okkur aftur mildu augnaráði og sagði blíðlega: „Takið af ykkur ilskóna".

Við skildum ekki en gerðum eins og hann bað.

Þá kom gestgjafinn með þvottaskálina og vatnið. Og Jesús sagði: „Nú ætla ég að þvo fætur ykkar. Því að ég verð að losa fætur ykkar við ryk hins gamla vegar og gefa þeim frelsi hins nýja vegar".

Og við urðum niðurlútir og fórum hjá okkur.

Þá stóð Símon Pétur upp og sagði: „Hvernig get ég leyft meistara mínum og herra að þvo fætur mína?"

Og Jesús svaraði: „Ég ætla að þvo fætur ykkar til að láta ykkur minnast þess að sá sem þjónar mönnum mun verða mestur meðal manna".

Og hann horfði á sérhvern okkar og sagði: „Mannssonurinn hefur valið ykkur til að þjóna mönnum. Hann sem í gær fékk fætur sína smurða með arabískri myrru og þerraða með hári konu, vill nú þvo fætur ykkar".

Og hann tók þvottaskálina og vatnskönnuna, kraup niður og þvoði fætur okkar, fyrst fætur Júdasar Ískaríots.

Þegar þessu var lokið settist hann hjá okkur við borðið. Og andlit hans var eins og morgunsól sem rís yfir vígvöll eftir orrustu og blóðsúthellingar næturinnar.

Og gestgjafinn og kona hans komu inn með mat og vín.

En þrátt fyrir sultinn áður en Jesús kraup við fætur mér, hafði ég nú enga lyst á mat. Og það var eldur í kverkum mínum sem ég gat ekki slökkt með víni.

Þá tók Jesús brauðhleif, hann braut brauðið, gaf okkur og sagði:

„Kannski er þetta síðasta brauðið sem við brjótum. Við skulum neyta þess og minnast daga okkar í Galíleu".

Og hann hellti víni úr könnunni í bikar. Og hann drakk af honum og rétti hann til okkar. Og hann sagði: „Drekkið þetta og minnist þess þorsta sem við höfum orðið að þola saman. Og drekkið einnig í von um betri tíma. Þegar ég er horfinn og verð ekki lengur ykkar á meðal og þið mætist hér eða á öðrum stað, brjótið þá brauðið og neytið vínsins, etið og drekkið eins og þið nú gerið. Hver veit, ef vel er að gætt, nema ég sitji þá einnig hjá ykkur".

Þegar hann hafði þetta mælt deildi hann matnum á milli okkar eins og fugl sem gefur ungum sínum.

Við borðuðum lítið en vorum samt saddir. Við drukkum lítið en fannst bikarinn vera heill hafsjór.

Þá sagði Jesús: „Áður en við förum frá þessu borði skulum við syngja fagnaðarsálma Galíleu".

Og við stóðum á fætur og sungum saman og rödd hans yfirgnæfði okkar og það var sérstakur hljómur í hverju orði hans.

Og hann horfði í andlit okkar, hvers og

eins, og sagði: „Nú kveð ég ykkur. Við skulum fara héðan. Förum til Getsemane“.

Og Jóhannes Sebedeusson sagði: „Meistari, hvers vegna kveður þú okkur í kvöld?“

Jesús svaraði: „Vertu ekki hryggur. Ég fer aðeins til að búa ykkur stað í húsi Föður míns. En ef þið þarfnist mín mun ég koma til ykkar aftur. Hvar sem þið kallið á mig mun ég heyra til ykkar, og hvar sem andi ykkar leitar mín, þar mun ég vera.

Gleymið ekki að þorstinn leiðir ykkur til lindarinnar og hungrið að veislufagnaði.

Löngun ykkar mun leiða ykkur til Mannssonarins. Því að þráin er uppspretta andans og vegurinn til Guðs, Föðurins“.

Og Jóhannes tók aftur til máls og sagði: „Ef þú ert í raun og veru að fara frá okkur, hvernig getum við þá verið glaðir? Og hvers vegna talar þú um aðskilnað frá okkur?“

Og Jesús sagði: „Hjörturinn veit um ör veiðimannsins áður en hún hittir hann í hjartastað. Og elfan veit um útsæinn áður en hún nær ströndinni. Og Mannssonurinn hefur kannað vegi mannsins.

Áður en annað möndlutré teygir blóm sín upp í sólarljósið munu rætur mínar teygja sig djúpt í annan akur“.

Þá sagði Símon Pétur: „Meistari, far þú ekki frá okkur núna og neitaðu okkur ekki um þá gleði að vera hjá okkur. Þangað sem þú ferð, þangað förum við líka. Og hvar sem þú verður, þar viljum við einnig vera“.

Jesús lagði hönd sína um herðar Símonar Péturs, brosti til hans og sagði: „Hver veit nema þú verðir að afneita mér áður en nóttin er liðin og yfirgefa mig áður en ég fer frá þér“.

Þá sagði hann skyndilega: „Förum nú héðan“.

Og hann fór úr salnum og við fylgdum honum. En þegar við komum út að borgarhliðinu var Júdas Ískaríot ekki lengur með okkur. Og við gengum yfir dalinn Gehenna. Jesús gekk langt á undan okkur og við fylgdumst að í þéttum hóp.

Þegar hann kom í olífulund einn nam hann staðar, snerist á móti okkur og sagði: „Hvílist hér eina stund“.

Kvöldið var svalt þó að komið væri fram á vor. Mórberjatrén voru tekin að laufgast og eplatrén stóðu í blóma. Og gróðurinn ilmaði í lundinum.

Við lögðumst til svefns undir trén. Sjálfur vafði ég skikkju minni þétt að mér og hallaðist upp að furutré.

En Jesús fór frá okkur og gekk um meðal olífutrjánna. Og ég hafði auga með honum meðan hinir sváfu.

Stundum nam hann skyndilega staðar en hélt svo áfram að reika fram og aftur. Þetta endurtók sig oft.

Ég sá að hann lyfti höfði sínu til himins og breiddi út faðminn móti austri og vestri.

Eitt sinn sagði hann: „Himinn og jörð og einnig víti, allt þetta er í manninum". Og nú minnist ég þessara orða. Ég vissi að hann sem gekk um trjálundinn var himinninn holdi klæddur. Og ég skynjaði að jörðin var hvorki upphaf né endir, heldur stríðsvagn, stormahlé, augnablik furðu og undurs. Og ég sá líka víti í dalnum sem menn kalla

Gehenna, sem lá milli hans og hinnar helgu borgar.

Og þar sem hann stóð og ég lá sveipaður skikkju minni heyrði ég rödd hans. En hann var ekki að tala til okkar. Þrisvar heyrði ég hann segja orðið: *„Faðir“*. Og það var hið eina sem ég heyrði.

Eftir nokkra stund féllu armar hans niður og hann stóð kyrr eins og sedrusviður milli augna minna og himinsins.

Loks kom hann aftur til okkar og hann sagði við okkur: „Vaknið og rísið upp. Stund mín er komin. Heimurinn hefur nú þegar snúist gegn okkur, búinn til stríðs“.

Og síðan sagði hann: „Fyrir stundu heyrði ég röddu Föður míns. Ef ég sé ykkur ekki aftur, minnist þá þess að sigurvegarinn mun ekki fá frið fyrr en hann er sigraður“.

Og þegar við vorum komnir á fætur og til hans var andlit hans eins og heiður stjörnuhiminn yfir eyðimörkinni.

Þá kyssti hann okkur alla á vangann.

Og þegar varir hans snertu vanga minn

voru þær heitar eins og hönd barns sem er með hitasótt.

Skyndilega heyrðum við mikinn gný í fjarlægð og þegar hann færðist nær sáum við að þetta var fylking manna með ljósker og stafi og hún stefndi til okkar. Og þeir fóru hratt yfir.

Þegar þeir komu að lundinum yfirgaf Jesús okkur og gekk fram á móti þeim. Og það var Júdas Ískaríot sem vísaði þeim veginn.

Þetta voru rómverskir hermenn með spjót og sverð, og menn frá Jerúsalem með barefli og axir.

Og Júdas fór til Jesú og kyssti hann. Og síðan sagði hann við mennina í herklæðunum: „Þetta er maðurinn".

Og Jesús sagði við Júdas: „Júdas, þú hefur sýnt mér þolinmæði. Þetta hefði getað gerst í gær".

Hann sneri sér því næst að mönnunum í herklæðunum og sagði: „Takið mig núna en gætið þess að fangelsi ykkar sé nógu sterkt til að halda þessum vængjum".

Þá réðust þeir að honum og héldu honum og þeir öskruðu allir.

En við flúðum skelfingu lostnir og reyndum að komast undan. Ég hljóp einn gegnum olífulundina. Og ég var altekinn ótta og gleymdi öllu öðru.

Það sem eftir lifði nætur var ég á flótta og í felum. Og í dögun var ég staddur í þorpi nálægt Jeríkó.

Hvers vegna hafði ég flúið frá honum? Ég veit það ekki. En það hryggir mig að ég gerði það. Ég var huglaus og ég flúði undan óvinum hans.

Ég var miður mín af blygðun og ég fór aftur til Jerúsalem en hann var fangi og enginn vina hans gat talað við hann.

Hann var krossfestur og blóð hans hefur skapað nýjan heim.

Og ég lifi enn. Og ég lifi í þeim ilmi sem hann lét eftir sig.

## Símon frá Kýrene

Ég var á leiðinni út á akurlendið þegar ég sá hann bera kross sinn. Og mannfjöldi fylgdi honum.

Og ég slóst í förina og gekk við hlið hans.

Hann nam oft staðar undir byrði sinni því hann var orðinn örmagna.

Þá nálgaðist mig rómverskur hermaður og sagði: „Kom þú hingað, þú ert hraustur maður og mikill að burðum. Berðu kross þessa manns“.

Þegar ég heyrði þessi orð gladdist ég í hjarta mér og ég var þakklátur.

Og ég bar kross hans.

Hann var þungur, því að hann var gerður úr ösp sem var blaut eftir vetrarregnið.

Og Jesús horfði á mig. Og svitinn af enni hans draup niður af andlitinu.

Aftur horfði hann á mig og sagði: „Drekkur þú líka af þessum kaleik? Sannarlega skaltu fá að bergja á honum allt til endaloka tímans“.

Að svo mæltu lagði hann hönd sína á þá öxl mína sem var frjáls. Og við gengum saman áleiðis upp á Hausaskeljastað. En nú fann ég ekki fyrir þunga krossins. Ég fann aðeins hönd hans. Og hún var eins og vængur fugls á öxl minni. Við komum upp á hæðina og þar voru þeir til að krossfesta hann.

Og þá fann ég þunga krossins.

Hann sagði ekkert orð þegar þeir ráku naglana gegnum hendur hans og fætur og frá honum heyrðist ekkert hljóð.

Og limir hans skulfu ekki meðan höggin dundu.

Það var eins og hendur hans og fætur hefðu dáið og lifnuðu ekki aftur fyrr en þær lauguðust blóði. Samt var eins og hann tæki við nöglunum eins og þjóðhöfðingi tekur við veldissprota. Það var eins og hann sjálfur vildi á þennan hátt vera hafinn til hæða.

Og vorkunnsemi var mér ekki í huga því að andi minn fylltist af miklu undri.

Nú hefur maðurinn, sem ég bar krossinn fyrir, orðið kross minn.

Ef þeir segðu mér að bera hann aftur, þá skyldi ég bera hann ævi mína á enda.

En ég mundi biðja hann að leggja hönd sína á herðar mér.

Það er langt síðan þetta var. Og ennþá hugsa ég allar stundir um þennan yndislega mann, hvort sem ég plægi akurinn eða legg mig til hvíldar.

Og ég finn hönd hans, létta eins og væng, hvíla á vinstri öxl minni.

## Sýbórea, móðir Júdasar

Sonur minn var góður maður og réttlátur. Hann var mér mildur og hlýr og hann unni landi okkar og þjóð. Og hann hataði óvini okkar, hinn arga rómarlýð sem klæðist purpura þótt hann hvorki spinni þráð né sitji við vef. Uppskerunni safna þeir, en aldrei plægja þeir og aldrei sá þeir neinu.

Sonur minn var aðeins sautján ára staðinn að því að skjóta ör að rómverskum hermanni sem óð gegnum víngarð okkar.

Þegar í æsku talaði hann til ungmenna um ágæti Ísraels og hann sagði undarlega hluti sem ég ekki skildi.

Hann var sonur minn, minn eini sonur.

Hann drakk líf úr þessum brjóstum, sem nú eru þurr, og hann steig fyrstu spor sín í

þessum garði og greip um þessa fingur sem nú eru skjálfandi reyr.

Með þessum sömu höndum, sem þá voru ungar og ferskar eins og drúfur Líbanons, vafði ég fyrstu skóna hans í klæði sem móðir mín gaf mér. Ég geymi þá enn í kistunni þarna undir glugganum.

Hann var frumburður minn og þegar hann steig fyrsta sporið, steig ég mitt fyrsta spor. Því að konur ferðast alltaf í fylgd með börnum sínum.

Og nú er mér sagt að hann hafi fallið fyrir eigin hendi. Að hann hafi hent sér fram af háum kletti, í iðrun yfir að hafa svikið vin sinn, Jesú frá Nazaret.

Ég veit að sonur minn er látinn. Ég veit líka að hann hefur ekki svikið neinn. Hann var trúr sínu fólki og hataði engan nema rómverja.

Sonur minn vildi frægð Ísraels, og ekkert annað fólst í orðum hans og verkum en hollusta við land okkar og þjóð.

Þegar hann hitti Jesú á veginum yfirgaf

hann mig og fylgdi honum. Innst inni vissi ég að hann átti ekki að fylgja neinum manni.

Og þegar hann kvaddi mig sagði ég honum að hann væri að gera rangt. En hann vildi ekki hlusta á mig.

Börn okkar hlusta ekki á okkar álit. Flóð dagsins stjórnast ekki af flæði gærdagsins.

Ég bið þig að spyrja mig ekki fleiri spurninga um son minn.

Ég elskaði hann og ég mun alltaf elska hann.

Ef ástin væri í holdinu mundi ég brenna hana burtu með glóandi járni til að finna frið. En upptök hennar eru í sálinni og við náum ekki til hennar.

Og nú vil ég ekki segja fleira. Far þú og spurðu aðrar konur, konur sem eru meira metnar en ég, móðir Júdasar.

Far þú til móður Jesú. Sverðið situr einnig í hjarta hennar. Hún mun segja þér frá mér og þú munt skilja.

# Konan frá Býblos

Grátið með mér,
þið Astartes dætur,
og allir sem Tammús elska.

Bjóðið hjartanu að bráðna og rísa
svo blóð og tár ykkar frá því streymi,
því horfinn burtu er hann,
sem af fílabeini og gulli var gerður.
Í dimmum skógi af villidýri veginn,
og vígtennur þess gegnum hold hans ristu.
Nú liggur hann grafinn í laufi föllnu.

Ei lengur vekur
fótatak hans það fræ,
sem ófætt vor í værum svefni geymir.

Í morgunroðanum rödd hans
ei lengur ég heyri.
Og allar stundir ein ég verð.

Grátið með mér,
þið Astartes dætur,
og allir sem Tammús elska.

Því ástvinur minn er farinn frá mér.
Orð hans voru sem vatnaniður.
Og tíminn og rödd hans
urðu eitt.

Munnur hans
sársauka að sætleika gerði.
Og varir hans breyttu
remmu heimsins í hunang.

Grátið með mér,
þið Astartes dætur,
og allir sem Tammús elska.

Grátið með mér hjá hans líkamsleifum
líkt og stjörnur himins sakna;
sem mánablöð á minningu hans falla.

Á silkilín mitt
látið tárin falla,
og ljúfling minn,
sem lifði hjá mér forðum
í draumi mínum,
en dó er sól mig vakti.

Ég bið ykkur, þið Astartes dætur,
og alla sem Tammús elska,
grátið og veitið hjarta mínu huggun,
því horfinn er vinur minn,
Jesús frá Nazaret.

## María Magdalena: Þrjátíu árum seinna

Einu sinni enn segi ég að með dauða sínum hafi Jesús sigrað dauðann og risið úr gröfinni sem andi og máttur. Og hann gekk inn í einveru okkar og breytti henni í garð unaðssemda.

Hann liggur ekki þarna í þessari kletta-sprungu bak við steininn.

Við sem elskum hann sáum hann með þessum augum okkar sem hann gerði sjá-andi. Við snertum hann með þessum höndum okkar sem hann kenndi okkur að rétta fram.

Ég þekki ykkur sem ekki trúið á hann.

Ég var ein af ykkur. Þið eruð mörg nú en verðið seinna færri. Verðið þið nauðsynlega að brjóta hörpu ykkar og lýru til að heyra tóna þeirra?

Eða verðið þið að fella tré til að trúa á ávexti þess?

Þið hatið Jesú vegna þess að einhver að norðan sagði að hann væri sonur Guðs. En þið hatið hver annan vegna þess að sérhver ykkar telur sjálfan sig of mikinn til að vera bróðir náunga síns.

Þið hatið hann vegna þess að einhver sagði að hann væri fæddur af mey og ekki getinn af manni.

En þið þekkið ekki mæðurnar sem hverfa til grafar sinnar í meydómi og ekki heldur mennina sem drukkna í eigin þorsta.

Þið vitið ekki að jörð og himinn voru vígð saman og að það er jörðin sem sendir okkur fram til fjalla og út á eyðisanda.

Það er djúp milli þeirra sem elska hann og þeirra sem hata hann, milli þeirra sem trúa og þeirra sem trúa ekki.

En þegar tíminn hefur brúað það djúp munt þú vita að hann sem bjó í okkur er eilífur, að hann var sonur Guðs og við erum líka Guðs börn. Þú munt vita að hann var

fæddur af meyju eins og við erum fædd af jörðu sem á sér engan maka.

Það er undrunarefni, að jörðin gefur hinum trúlausu engar rætur til að nærast á brjóstum hennar. Og enga vængi til að fljúga nógu hátt til að geta drukkið daggir himinsins.

En ég veit það sem ég veit. Og það er nóg.

# Maður frá Líbanon: Nítján öldum síðar

Meistari. Meistari söngsins.
Meistari ósagðra orða.
Sjö sinnum fæddist ég.
Sjö sinnum hef ég dáið
síðan þú komst í stutta heimsókn,
og við fögnuðum þér skamma stund.
Og sjá ég lifi aftur
og minnist dags og nætur
inn milli fjalla,
þar sem andi þinn gaf okkur
nýjan og hærri heim.

Farið hef ég síðan um fjölmörg lönd.
Og mörg eru höfin sem ég hefi siglt.
En hvar sem ég fór um höf eða lönd
heyrði ég nafn þitt í bænum manna
eða barátturæðum.

Menn blessuðu þig
eða fóru um þig illum orðum.
Illyrðin voru andmæli gegn
þeirra eigin villu.
Blessunin var oft veiðimannsins sálmur
sem kemur af fjöllum
með björg í aðþrengt bú.

Enn eru vinir þínir okkar á meðal
að bjarga og styðja.
Og óvinir þínir eru hér líka
að biðja um vald,
og verja sínar gerðir.

Móðir þín er hjá okkur.
Ég hef séð ljósið í augum hennar
í andliti hverrar móður.
Mjúklega hreyfir hönd hennar
hverja vöggu.
Og hún umvefur barn sitt ást.

Og meðal okkar er María Magdalena,
konan sem drakk sinn beiska bikar
en bergði síðar
á lífsins ljúfa víni.

Og Júdas er hér á jörðinni enn
með gamlan metnað
og sársauka sinn.
Og jafnvel nú beinist hungur hans
að honum sjálfum,
finni hann ekkert annað.
Hann leitar að sínu æðra eðli
með því að týna sjálfum sér.

Og Jóhannes er hér
sem elskaði fegurð ungur
og syngur óð sinn þótt enginn hlusti.
Og Símon Pétur situr hér líka
við okkar arin.
Hann fljótráður áður afneitaði þér
til þess eins að lifa fyrir þig lengur.
Og áður en morgnar
gæti hann þér afneitað aftur,
og aftur á krossi dáið fyrir þig
og talið það heiður
sem hann ætti naumast skilið.

Hér Kaífas og Annas eru á ferð
og dæma áfram saklausa sem seka.
Á svanadúni sofa þeir í værð
er svipuhögg á bak þess dæmda falla.

Og konan er hér er sögð var lifa í synd.
Hún gengur ennþá okkar gömlu brautir.
Og munar í brauð sem ekki er bakað enn.
Og hún er ein í auðu húsi.

Og Pontíus Pílatus – einnig hann er hér.
Hann horfir á þig óttablöndnum augum
og spurningar sinnar
spyr þig enn sem fyrr.
En stöðu sinni ei þorir hann að hætta.
Og vill ei heldur ögra útlendingum.
Hann horfir á þig og hendur sínar þvær.

Og enn heldur Jerúsalem, jafnvel nú,
þvottaskál þinni.
En vatnskönnu þína Rómaborg
hefur í hendi.
Og milli borganna tveggja
milljónir handa
þvo sig hvítar í þínu vatni.

Meistari. Meistari skálda.
Meistari orðsins, hins talaða og sungna.
Til að hýsa þitt nafn
menn hafa þér musteri byggt.
Á hverri hæð menn hafa kross þinn reist,
merki og tákn til að vísa til vegar
þeirra eigin áttavilltu fótum.
En hverjir reistu gleði þinni
musteri eða minnisvarða?
Gleði þín er í hæðum
handan við þeirra sýn.
Og huggun ekki hún þeim veitir neina.
Þeir munu heiðra þann mann
sem þeir þekkja ekki.
En hvaða huggun
veitir maður mönnum,
ef góðleiki hans
er góðleika þeirra skyldur,
og ást þess guðs sem elskar
líkt og þeir sjálfir,
og miskunnsemi Guðs sem manns er lík?

Þeir heiðra ekki manninn,
hinn lifandi mann sem fyrstur
opnaði augu sín
og horfði á sólina án þess að líta undan.
Nei, Mannssoninn þekkja þeir ekki,
og vilja ekki vera eins og hann.

Og þess vegna eru þeir enn í myrkri
og ganga í skuggagöngu.
Þar bera þeir harm sinn, sína eigin sorg,
og gleði þinni viðtöku ekki veita.
Særð hjörtu þeirra
leita ekki að huggun
í orðum þínum og söng.
Og sárindi þeirra eru því óræð og þögul.
Í einsemd sinni verða þeir vinafáir
þótt umkringdir séu af ættingjum sínum
og grönnum.
Yfirgefnir í ótta þeir lifa.
Samt þyrftu þeir ekki einir að vera.
Þeir hallað sér gætu til austurs
að uppsprettu ljóssins,
er vestlægir blása vindar.

Þeir kalla þig konung,
og sjálfir sem aðall
þeir vilja við hirð þína vera.
Þeir nefna þig Messías
og láta smyrja sig sjálfa
hinni helgu olíu.
Já, þeir vilja lifa á þínu lífi.

Meistari. Meistari söngsins.
Tár þín voru eins og regn í maí.
Og hlátur þinn eins og öldur
á hvítu hafi.
Þegar þú talaðir voru orð þín
hinn fjarlægi ómur af vörum þeirra
sem tala áttu síðar eldlegum tungum.
Þú hlóst fyrir merginn í beinum þeirra
sem enn gátu ekki hlegið.

Og þú grést fyrir augu þeirra
sem enn voru þurr.
Og rödd þín var faðir
hugsana þeirra og skilnings.
Og rödd þín var móðir
orða þeirra og anda.

Sjö sinnum fæddist ég.
Sjö sinnum hef ég dáið.
Og nú lifi ég aftur og lít á þig,
baráttumanninn meðal baráttumanna,
skáld allra skálda,
konung ofar öllum konungum.
Fyrir þér, klæðlitlum manni
í fylgd með förumönnum,
hneigir biskupinn höfuð sitt
hvern einasta dag
þegar hann nafn þitt nefnir.
Og á hverjum degi segir betlarinn:
„Í Jesú nafni, gefðu mér skilding
til að kaupa brauð“.
Við leitum hver annars,
en við leitum í sannleika þín,
eins og flóðbylgja á vori
langana okkar og drauma.
Og þegar haust okkar kemur
leitum við líka eins og útfall til þín.
Há eða lág, við lifum
með nafn þitt á vörum,
meistara ástar sem engum bregst.

Meistari, sem læknar
einsemd okkar.
Hér og hvar milli vöggu og grafar
sé ég þína þöglu bræður.
Hina frjálsu menn sem ekkert bindur.
Syni móður þinnar jarðar og geimsins.
Þeir eru eins og fuglar himins.
Og þeir eru eins og liljur vallarins.
Þeir lifa sínu lífi og hugsa
hugsanir sínar.
Og þeir endurtaka þinn óð.
En í höndum sínum hafa þeir ekki neitt.
Og krossfestir eru þeir ekki
krossfestingunni miklu.
Og það er þeirra kvöl.
Heimurinn krossfestir þá á hverjum degi,
en aðeins í átökum smáum.
Himinninn skelfur ekki.
Og jörðin vekur ekki sína dauðu.
Þeir krossfestir eru
en kvöl þeirra enginn sér.
Þeir horfa til hægri og vinstri
en finna engan sem fyrirheit þeim gefur
um samastað í sínu ríki.

Samt þyldu þeir krossfestingu
aftur og aftur
til þess að Guð þinn yrði þeirra Guð,
og Faðir þinn þeirra Faðir.

Meistari. Meistari allra elskhuga.
Kóngsdóttirin bíður komu þinnar
í sínum ilmandi sölum.
Og gifta konan sem gafst þó engum,
hún bíður þín líka í búri sínu.
Og vændiskonan sem aflar brauðs
í eymdarstrætum sínum.
Og í klaustrinu nunnan
sem engan bóndann á.
Barnlausa konan þín bíður líka
við glugga sinn
þar sem á rúðuna frostið málar
frumskóginn.
Og í því samhengi sér hún þig,
og vildi vera þér móðir
og láta huggast.

Meistari. Meistari skálda.
Meistari okkar þöglu vona.
Hjarta heimsins titrar
með hjartslætti þínum
en það logar ekki af ljóði þínu.
Í friðsælli rósemd heimurinn situr
og hlustar á þína rödd,
en hann rís ekki á fætur
til að ganga grýttan veg á fjallið.
Það getur verið að maðurinn vilji
láta sig dreyma þinn draum,
en ekki vakna til þíns nýja dags,
sem þó er öllum draumum æðri.
Verið getur að hann vilji sjá
með þínum augum,
en ekki draga þunga fætur sína
að hásæti þínu.
Þó hafa margir sest í sæti þitt
í þínu nafni.
Og sett upp mítur valds þíns
og gert þína gullnu komu
að kórónum fyrir höfuð sín
og veldissprotum fyrir hendur sínar.
Meistari. Meistari ljóssins.

Auga þitt er í leitandi fingrum hins
blinda.
Og enn ert þú hæddur og smáður,
maður of veikur til að vera guð,
guð of mennskur til að menn þig dýrki.
Messur þeirra og sálmasöngur,
sakramenti og talnabönd
er dýrkun á þeirra eigin sjálfi,
er fjötrað í fangelsi situr.
Þú ert þeirra sanna sjálf,
ennþá fjarlægt kall
langt í burtu.
Og takmark þeirra ert þú.

En meistari, hjarta himins,
sem lætur fegursta draum okkar rætast,
þú starfar ennþá okkar á meðal í dag.
Öll heimsins vopn ei hindra þína för.
Og náðarbros þitt lýsir okkur öllum
þú varst hið fyrsta orð,
ert Faðir okkar allra.
Skáld, Söngvari, Heilaga Hjarta,
megi Guð blessa nafn þitt
og þá konu sem þig bar

og brjóstin sem gáfu þér mjólk.
Og megi Guð fyrirgefa okkur öllum.

Efnisyfirlit